Nokkrar

# Athugasemdir

um

Dóm þann, er herra „J. S." hefir lagt á „sjø føstuprédikanir, samdar af Olafi Indridasyni, presti til Kolfreyustadar",

ritadar af

**O. Indridasyni,**

med

inngángsordum, fáeinum skiringargreinum og stuttum vidbætir

af

**Magnúsi Eirikssyni.**



---

**Kaupmannahøfn.**

Prentadar í S. L. Møllers prentsmidju.

**1847.**

Pared höfundur þessarra athugasenda, sem ritadar eru ad nokkru leiti eptir áeggjan minni, hefir falid mér á hendur, ad koma þeim á prent: verd eg ad segja lesendum „Félagsritanna" og blada þessarra nokkud gjörr frá, hvorn þátt eg í öndverdu hefi átt í þessu málefni, þar þeir einúngis vita: ad eg var einnig í forstödunefnd þess árs „Félagsritanna", er inniheldur álitid um „Föstuprédikanirnar", og mættu því álita mig sjálfum mér gagnstædann og ósamkvæmann, þar þad lítur svo út, sem eg þá hafi fallist á álitid, en ték nú þátt í ad mótmæla því. En svoleidis er þad ekki í raun og veru. Þad var lángt frá, ad eg med öllu væri samdóma álitinu. Ad vísu er þad ei svo ad skilja, ad mér ekki þætti prédikanirnar adfinníngarverdar, því bædi er málfæri á þeim verra enn þad hefdi þurft ad vera, og mörg ord óheppilega valin, og líka er þánkagángurinn á nokkrum stödum óljós, eda á annann hátt ófullkominn, — hvad höfnudur alt hefir játad; — eg þóttist og sjá, ad fleira mætti ad þeim finna, ef í mjög hart væri farid. Enn á hinn bóginn þótti mér álitid í mörgu og næstum öllu tilliti vera of hart og sumstadar órimilegt t. a. m. í adfinníngunni um málfærid, um kristsfrædina hjá höfundi o. s. frv. hvad eg fleirum sinnum lét í ljósi. Enn einkum vær þad álitid um frjálsrædis lærdóminn, hvari eg var „J. S." med öllu ósamþykkur. Eg gjördi fleiri tilraunir til ad sannfæra hann og flesta nefndarmanna um: ad lærdómur sá væri rángt skodadur í álitinu, en eg komst eingann veg. Nú mun margur spyrja: því eg þá ekki hafi med öllu sett mig á móti því, ad höf. væri dæmdur svo hardt og í sumu tilliti óréttvísliga, þar eg var sannfærdur þarum? Eg gæti hér svarad því, sem margir í mínum sporum mundu svara: ad í þesshattar kríngumstædum verdi einn ad láta undan mörgum og fella sig vid þad, sem þeim sýnist rétt ad vera. En þótt þad sé venja, ad minni hlutinn í þesshattar nefndum verdi ad láta undan meiri hlutanum, nægir mér samt ekki ad bera þetta fyrir mig, bædi af því, ad eg þóttist bera gott skynbragd á málefnid, og líka af því, ad eg gérdi meddómsmönunnum rángt til ef eg segdi, ad þeir hefdi neydt mig til ad samþykkja álitid, eda gésid þad út, þó eg af öllu abli setti mig ámóti því. Hefdi eg gjört þad, sann eg á „J. S.", ad hann naumlega hefdi látid þad fara, og heldur ekki, ef eg hefdi sett nedanundir: ad eg væri því ósamþykkur, sem eg einhvorntíma sagdi ad mér

væri í mun ad gjøra. Þarámóti hefdi þad líklega komid út, ef eg blátt áfram hefdi gengid út úr nefndinni, sem mér líka datt í hug ad gjøra. Ad eg ekki gjørdi þad, ydrast eg reyndar eptir; en mér gékk þad til, ad eg vildi vera í henni næsta ár, til þess ad géta mælt med ritlíngi þeim, sem eg þá strax símindadi mér ad høf. prédikananna mundi senda okkur í félagsritin, því eg komst fyrst seinna ad raun um, ad flestum nefndarmønnum fanst þad ótilhlydilegt, ad taka vid mótmælum þeim, er álit um rítgjørdir í Félagsrit. mundu af sér leida. En hvad hinu vidvíkur, ad eg ekki med øllu neitadi samþykki mínu til ad láta prenta álitd, þá var hugan mín í því tilliti beint áfram sú: álit þad, er Herra „J. S." hefir um frjálsrædid, flytur hann med sér heim til Íslands, þó ei ad eins hann, heldur og svo hinir gudfrædíngarnir: J. S., S. M. og máské fleiri, sem eru lærisveinar Herra Martensens; þessi lærdómur er háskalegur villulærdómur; fari þeir heim med hann, og ekkert verdi um hann talad á prenti, gétur hann í kyrrþey útbreidst bædi í skólanum og annarstadar; þad er því best ad taka gjæsina medan hún géfst, láta þetta álit fara og fá þarvid tækifæri til ad skíra frá þessum lærdómi og vekja eptirtekt allra-skynsamra manna á þessari martensensku villu, svo ad hún ecki útbreidist um landid, án þess nokkur taki eptir því, undir yfirskini sannrar kénníngar. Fái menn þaramóti þekkt skodon hinna allranýustu íslendsku gudfrædinga á þessu mikilvæga efni, géta menn betur varad sig á henni. Eg sá ad vísu, ad høf. føstuprédikananna med þessu móti vard ad lída órétt í bráð, en mér sýndist, eptir kríngumstædunum, ad þad yrdi ad vera svo, og þar eg sjálfur gjarnan vil líða órétt, ef þad gétur ordid til góds, ímindadi eg mér ogsvo, ad hann mundi láta sér þad lynda, þegar hann sæi hvornin á stód og ad þad gat ordid ødrum til gagns og advørunar. En sjálfur ætladi eg, hvort sem høf. hefdi ritad nokkud eda ekki, ad nota álltíd til ad vara landa mína vid villu þessari, og hefi því í vidbætirnum leitast vid ad skíra frá, hvørnin á henni standi.

Eg hefi nú einlæglega skírt frá því, er mér bjó í brjósti. Hafi mér farist midur enn skyldi í þesso efni, vona eg þó, ad gódfúslir lesendur sjái, ad hvorki eigingyrni eda óréttvisi hafi allad því. Eg vil eingum órétt gjøra, allrasíst þenn, er hafa sýnt mér stødvga velvild og tryggd. Á hinn bóginn er þad heldur ecki ásetníngur minn, ad hallá ránglega á þá menn, sem eru mér fráhverfir í meiníngum og trúarlærdómum, heldur einúngis ad vara vid villu þeirri, er þeir hafa inndruckid.

M. E.

Sá, sem þykist standa, gjæti ad sér, ad hann ekki falli.
1 Cor. 10, 12.

Þegar eg lét frá mér rædur þær, er prentadar vóru í Videy árid 1844, vissi eg vel ad þeim var ærid áfátt í mörgu, og kannast ennþá fúslega vid, ad þær vantar mikid á, ad svara til þeirrar hugmyndar, sem eg hefi gjört mér um hvörnin vel samdar rædur ættu ad vera; einkum sá eg gløggt, þó ei gæti ad gagni vid því gjört (nema kanské ef eg hefdi gjört þær upp aptur svogott sem ad nýu), ad mál og ordfæri var ekki svo vandad, ad stadist gæti fyrir stranngum dómi. Enn þá betur sá eg þetta þegar búid var ad prenta rædurnar, og þær höfdu aflagast mikid af hræmuglegum prentvillum, sem vída brjála meiningunni og sumstadar gjöra úr henni vitleysu. Eg hefdi því hvörki furdad mig á né tekid illa upp, þó kverid hefdi ordid fyrir töluverdri adfyndni, hefdi þad á annad bord verid tekid til skodunar; hitt kom mér meira óvart: ad þessar rædur, svo litilfjörlegar sem þær eru, mundu verda álitnar í öllum greinum þad afhrak, sem sá ritgjördadómari leitast vid ad telja mönnum trú um þær séu, er samid hefir þad álit um þær, sem stendur í 5ta ári „nýrra félagsrita". Þó þarf reyndar eingann ad furda hvad ómildur sá dómur er sem þar er uppkvedinn, er les þetta álit vel frá upphafi til enda, því þad lýsir því berlega, ad sá sem þad hefir samid, hefir ekki farid yfir bókina í gódum huga, ekki til þess ad skoda eins og réttvís dómari alt sem þar var ad skoda, meta hvad eina eptir vissum lögum eda reglum, og leggja svo á fylgislausann dóm; enn sídur med því áformi ad, hafa vid nokkra mannúd eda sanngyrni í dómi sínum. Hann hefir

þvert á móti hagad sér eins og illgjarn og slægur sóknari einhvors Sakadólgs, sem snapar saman úr frumprófinu og málsgögnunum alt, sem hann hefir von um ad géta snúid til áfellis þeim er hann ossækir, vindur því vid, tekur úr og eykur í svo kjænlega sem hann gétur, til ad reyna ad villa sjónir fyrir dómaranum, ber sig ad umhversa huga hans til kala og óvildar vid hinn seka ákjærda, med gífuryrdum yfir stærd og fjølda misverka hans og falsfláum ályktunum, sem hann leidir af hvørri sakargift; med þessu reynir hann ad fleka dómarann til ad leggja þann áfellisdóm á hinn ákjærda, sem hann sjálfur leggur honum í munn. Einmidt á þessa leid hefir høfundurinn ad farid; eda med ødrum ordum: hann hefir geingid ad rædunum eins og kvikindi, sem vedur úti poll, rótar í honum, og gjørir hann grugguganu, slafrar svo uppúr þad sem vest er, og slettir vadlinum úti allar áttir. Þannig vedur „J. S." innanum bókina til og frá, spýr jafnódt yfir hana þeim smánardómum: ad þar séu spjalda á milli ókostir á hvørju bladi, í hvørri klausu; rædurnar séu smeckleysu vefur í einu lagi, alt sé þar magurt, daudalegt og ónitt, þad sé óvinnandi ad tína alt, sem ad þeim mætti finna, og margt fl.; tekur svo jafnódt einstøk ord og parta úr málsgreinum, sem hann rífur úr sambandi, vikur vid, tekur úr, og setur saman aptur eins og honum þykir sér haga til ad géta byggt á því ákjærur sínar og lastmæli. Þad er sjálfsagt, ad hann gleymir ecki ad taka fram þá stadi, sem aflagadir eru af rit- eda prent-villum, t. a. m. á 40 bls. „skomm" („á ad vera „sømu eda enn þá argari synd") — málsgreinina á 41 bls., þar sem stendur „torveldara" fyrir „torveldt", sem gjørir málsgreinina óskiljanlega. Ur málinu tínir hann upp og kallar „illa dønsku", „málleysur" og „bøgumæli" ekki einungis þau ord, ordaskipanir og talshætti, sem í raun og veru eru sprottin af dønsku og vel mætti med sannindum ad finna, heldur einnig íns ord og talshætti, sem eiga þegar frá ondverdu rætur í íslenzku máli, edur og finnast jafnadarlega brúkud í þeim gudfrædis bókum, sem best er vandad til máls á, t. a. m. bókum meistara Jóns, og bædi í enni eldstu og nýjustu últeggs-

ing biblíunnar*). Og — alls þessa þarf hinn sanngjarni høf: vid, til ad auka med fjølda synda minna vid málid, sem hann telur þó „óvinnanda" ad tína! — Auk þessa skuldar hann mig fyrir „rugling í hurunarlífi (?), mentunarleysi", „ósæmileg og skrílsleg ordatiltæki", fyrir rángar kenningar, „gagnstædar" ritníngunni og trúarjátníngunum í kristilegum trúar-atridum, og skort á kristilegri andagift. Eigi þetta sídasta ordatiltæki ad takast svo — einsog reyndar er audvitad, fyrst eg á ad vera opinber falskénnari —: ad eg hafi ekki anda Krists, og þad á því undir ad skiljast, ad eg — eins og Postulinn ályktar — sé ecki hans: þá er hér ad vísu eins og høf. segir „djúpt tekid í árinni", og er þess líka þørf, þar sem hann er í blódspreing ad sperrast vid, ad róa mig útá djúp smánar og fordæmingar. Øll sú sanngyrni, sem „honum var unnt" og hann hrósar sér af, skilst mér þá fólgin í því, ad hann ekki dæmir mig til eilífrar gløtunar í heyranda hljódi, heldur ympar einúngis á røksemdinni fyrir því, ad eg hljóti ad eiga þar heima. Til hins geingur hann eigi dult, ad dæma bókina ekki einungis einkis verda heldur og skadlega, er hann segir hún drepi þad er hún skyldi glæda, enn þad var „kristileg trú óg kristilegt sidferdi"; ad géfa mér hvervetna illúdleg olbogaskot og sneidingar, og bregda mér um skort nálega á øllum þeim kostum, sem kristinn kénnimadur á ad hafa til ad bera.

Þegar eg féck þetta nidrit í hendur, var mér helst í hug ad svara því eingu. Bædi var svo á hagi, ad eg þá og leingi eptir þad var beigdur af þreytu ogønnum, sem orsøkudust af þúngum veikindum á heimili mínu og um sóknina; líka lá ritgjørdin mér í léttu rúmi ad því leiti, ad eg var viss

*) Sem dæmi uppá þetta mætti nefna: „frómur" (sbr. frómlyndur Sálm. 125, 4. frómhjartadur o. fl.) „ad koma (= færa, snúa) til godrar vísu"; ad „taka orsøk af textanum" (sbr. Vidal. post. í nidurlagi inngángsins á 17, 20 og 21, s. e. Tr.), ad „sundurknosa" sbr. kvædid Líknarbraut [Videy 1744] er Doct. Egilsen meinar ort ofarlega á 13du eda øndverdlega á 14du Øld. 30 V.: „krýp eg til kross enn glæpa — Knosud bønd af því losna".

um, hún mundi ekki breyta áliti minu hja neinum, sem nokkud þekktu mig annars vegar; og loxins gat eg gjørt ráð fyrir mørgum lesendum, sem sæi sjálfkrafa hvad álit þetta var illgyrnislegt, og ad þad er hvørki sannleiks elska né fødurlandsást, heldur einhvør „illhæra" i toga þeim, sem þad er spunnid af*). Enn þegar eg fékk betra rádrum til ihugunar, og adgjætti til fulls hvad hrekkvíslega høf. hafdi vída rángfært ord min og meiningu, tekid úr málsgreinum og undid þeim vid, eda sett saman i spottum, en audkénnt þó alt þetta med innvitn-

*) Høfundur mun hér ecki hafa farid fjærri því, ad ætlast á álit sumra manna um þetta mál. Í þad minnsta hafa medal annarra 2 Prestar, bádir óvidkomandi og, þad og tilveit, ákunnugir høfnudi, en þarhjá skynsamir og vandadir menn —: í bréfum til mín látid í ljósi líka meining. Annar þeirra segir t. d.: „mér líkar ekki alt í þeim (Félrit. 1845), en þad er einkum dómurinn um bók Síra Olafs. Eg hélt strax þegar eg las nefndann dóm, ad þar byggi undir persónulegt hatur" o. s. frv. Þad mun fleirrum finnast, því slíkur dómur er nærfeldt óskiljanlegur nema fyrir þá, er þekkja nokkud til, hvorsu sumir af útlærdu(?) Candidøtunum frá háskólanum finna til sín og sinna yfirburda yfir veslings ólærdu og „ómentndu" prestana heima, þó þeir fari hægt med þad, og vilji ad ødru leiti gjarnan sýna audmýkt sína. Hinn presturinn, sem annars ofurvel hefir séd, hvad finna mátti ad „Føstuprédikununum" og talad um þad, seigir: „ad þessu slepptu finnst mér samt recensiónin vera mikid of svæsin, ekki síst í kristfrædinni, hvar útyfir tekur, og recensentinn leidir þad útúr ordum høfundsins, sem hann hefir aldrei meint, því þad er hvorjum kristnum almúgamanni ætlandi, auk heldur þá presti, sem fræda á adra, ad hann viti svo mikid í kristnum frædum, ad hann láti ekki heyra og því sídur prédiki svo hraparlega villu og gudlast, sem recensentinn þykist finna á þeim umgétna stad, og von er ad Síra O. gremjist svo vodaleg rángsærsla, því einginn sanngjarn, kristilega lyndtur og skynsamur madur gét eg ætlad ad rádid géti þad af ordum høfundsins, ad hann vilji fara því fram: ad Kristur hafi verid „„í tøð annarra syndugra manna"" o. s. frv. Ætli Herra J. S. géti verid þént med, ad álit hans sé þannig dæmt af skynsømum, upplystum og sanngjørnum mønnum? Ætli hann géti forsvarad sig og sýnt med røkum, ad slíkt séu hleypidómar? M. E.

unar merkjum, eins og það væri min óbreytt orð, þá sá eg þetta gat bæði blekkt þá, er farið hefðu fljótt yfir ræðurnar, og hlaut að villa sjónir fyrir øllum hinum, sem ekki hafa sjeð eða fá að sjá þær. Þetta leiðir mig til að reyna að skíra hér litið eitt sjónir fyrir þeim af løndum minum, sem lesið hafa álit høf., svo þeir géti með eigin augum séð, hvað satt er eða ósatt í því ófrægi, sem þar er á mig borið. Eg veit að línur þessar koma of seint fyrir þá, sem hafa orðið svo fljótir á sér, að segja strax amen til alls hjá høf.; en bæði er óvíst, að þessir séu svo margir, og aptur hvørt það er betri hlutinn af þingheiminum. Eg læt mér því nægja, að bera málstað minn undir hina, sem eptir eru.

Ekki veit eg með neinni vissu lesendur góðir! hvør þessi herra J. S. er, sem eg á í høggi við, og snúist hefur svo heiptarlega að mér. Mér hefur verið sagt það væri einhvør Jón Sigurdsson — ekki alþingismaðurinn! heldur — guðfræðingur, útlærður frá háskólanum; það skiptir raunar eingu hvør maðurinn er, þó má eg géta þess: að eg hafði aldrei fyrri heyrt hann né séð, og var honum því saklaus að minu viti. Það sem okkur fer nú á milli, er þá frá minni síðu einúngis sprottið af þessum ræðum minum eða útgáfu þeirra, sem orðið hefir að þyrni í augum hanns; þær eru það glæpsmerki (corpus delicti), sem þér egið að dæma af um sikn mína eða sekt. Eg verð því fyrst og fremst að biðja yður að lesa þær! Høf. hefir að sønnu reynt að fæla yður frá því, og sumstaðar látist ætla að taka ómakið af yður; enn þó þér trúið honum vel, þá er þó ætíð vissara að trúa sjálfum sér best. Kverið er ekki nema tæpar 7 arkir, og eg ætlast ekki til þér lesið nema ræðu í senn. Þér gétið líka hvílt yður á að líta jafnóðt í álit høf. og svo þessar línur til skiptis, þá hafið þér og fyrir yður øll málsgøgnin undir eins. Aður þér lesið ræðurnar, verð eg biðja yður athuga: að auk þeirra prentvillna sem lagfærðar eru, finnast því miður! lángtum fleyri prent- eða rit-villur í kverinu, er vel gétur skéð, að sumar séu handritinu að kénna, þó ei séu nema fáar af þeim í frumvarpinu sem eg hefi hjá mér. Þessar eru

hinar vestu: bls. 10[5] „tvennslags" les fernslags*); 15[10] „vitsku" l. vísdu; 15[27] „mannlega" l. magnlega; 27[7] „kost-onum" l. löstunum; 27[8] „Júdar" l. Júdas; 32[7] „spillingu" l. vid spillingu; 33[3] úrfellist: „þar"; 33[9] „þau" l. þær; 37[3] vantar: „væri"; 39[15] „sljógleiki" l. sljófleiki; 40[14] „skamm" l. sömu; 41[9] „torveldara" l. torveldt; 41[21] „þegar vér alvarlega" l. þegar vér aldrei; 43[30] „tilfinning" l. til-hneiging; 70[7] „gétur" l. géta; 91[31] „fyrir-búid" l. fyrir-búinn; 105[13] „samkristnir" l. sannkristnir; 106[23] „lissins" l. lidsins. Pad eru máské ekki fáir, sem hafa svo næma tilfinn-ing fyrir gódu málfæri, ad þeir hafa strax í öndverdu feingid nokkurskonar agnúa á kverinn einúngis fyrir þad, ad þeim þykir málinu, sem á því er, svo mjög ábótavant; eg vil því géta þess strax, ad eg kannast fúslega vid þessa ávyrdingu, gét ekki og ætla ekki ad bera vid ad afsaka hana, því eg vildi aldrei verda fundinn ad því ad þræta þess, sem eg gét séd ad satt er. Pessa missmídi bid eg alla gódgjarna lesendur ad fyrirgéfa. Géti þeir þad ekki þegar þeir gjæta þess: 1. ad mér audnadist aldrei ad koma í Bessastada skóla og mátti því fara á mis vid þá ágjætu kénnslu í íslenzku máli, sem þar var kostur á, og 2. ad málid á rædunum mun ad nokkru leiti samsvara því máli á gudfrædisbókum vorum, sem þótt hefir vid sæmandi þángad til nú fyrir fám árum —: þá verda þeir ad leggja á mig þann dóm fyrir syndir mínar vid málid, sem þeim þykir réttur vera; eg vil ekki skjóta mér und-ann honum. Einúngis mælist eg til, ad menn vildu líta svo

*) Vegna þessarar rit- eda prent-villu hefur höf. gjört á 126 bls. mikinn lestur útaf því „skeytíngarleysi", ad mér hafi sipast þar ad telja til 4ra; en ádur hann tók svo fulla gúlana, hefdi honum verid skammarminna ad hreinsa fyrst fyrir sínum dyrum. Á 128 bls. l. 31 sjá menn, ad „skeytíngin" hefir verid dottin frá sjálfum honum, ádur hann komst af med ad telja til 42. Því þar vitnar hann þad inn á 41, sem stendur á 42 bls. í rædunum. Pad er sjálfsagt töluvert mentadri madur, sem rétt gétur talid til 40, enn hinn sem sipast til 4ra. Pó skyldi sá ætíd gódur, sem grandvar þykist!!

á þessa áviyrding útaf fyrir sig, að þeir láti hana ekki hindra sig frá að líta fylgislaust á ræðurnar í öðru tilliti. Við hitt kannast og líka: að þar finnast víða orð, sem ekki eru heppilega valinn þó íslenzk séu, lýsingar (descriptiones) og orðatiltæki, sem ekki eru svo nákvæm sem vera ætti, og hæglega verða misskilin og rángfærð, einkum ef slitin eru úr samanheingi. Þetta er að vísu ófullkomlegleiki, en hvörki er eg hræddur um hann verði neinum guðræknum lesara að meini, eða goðgjarnir menn muni taka mjög hart á hönum, því eg ætla mjög torvelt að vanda svo verk sín, að þetta verði gjörsamlega umflúið.

Þegar þér, lesendur góðir! farið yfir ræðurnar hvört heldur til að hafa þeirra not eða leggja á þær skynsamlegann dóm, þarf eg valla að minna yður á: að það er ógjörandi að hrafla einúngis híngað og þángað ofaní þær, ellegar hlaupa yfir þær til þess að leita eptir einhvörju sem fetta mætti fingur í, eins og J. S. hefir gjört. Það er alkunnugt, að þetta er sá máti, sem fjandmenn kristindómsins hafa brúkað við bibliuna, og feingið sér með þessum hætti nóg tilefni til að ausa háði og lastmælum jafnvel yfir þessa helgu bók og hennar rithöfunda. Þetta er einnmidt sú aðferð, sem hvör ritgjörða dómari brúkar, þegar hann hefir illt í sinni. Þannig les eínginn góðgjarn lesari neina bók, og eínginn kristilega sinnaður andlegar bækur, jafnvel ekki þó lítilsgjörlegar séu. — — Eg vildi einnig mælast til, að þér skoðið og dæmið hvörja ræðu fyrir sig, því hvör ein er sérstakt verk, og séuð jafnframt minnugir þess: að eins og hvör skynsamur maður hefir vissann tilgáng með því, er hann talar, svo mun og kennimaðurinn optast hafa eitthvört aðal-augnamið með hvörri ræðu sinni, ætíð að nokkru leiti lagað eptir þekkingu hans á meiningum, hugarfari og síðum þess safnaðar, sem hann á tal við. Þó hann géti og eigi að hafa fleyri enn eitt augnamið með ræðunni, ætla eg þó ei ótilhlýðilegt, að hann láti hana alla einkum híniga að aðal-augnamiðinu, og sneiði sig í það sinn hjá öllum útlistunum og orðafjölda sem lítið eður ekkert koma því við. Af þessu sjáið þér það verður að fylgja: að

hvada umtalsefni sem einhvör kénnimidur kann ad velja sér, hlýtur þó mørg huran, margar røksemdir, dæmi og ástædur í rædu hans ad verda stundum mjøg á annann veg, enn þeir búast vid edur ætlast til, sem lesa hana eptir á, ef þeir ekki athuga þetta; sem og: ad mørg þau atridi kunna ad vera einúngis áhrærd í einni rædu, sem ekki hlýdir í þad sinn ad útlista *).

Adur þér dæmid um hvørja rædu, óska eg þér vildud hyra eptir, hvør ydur vyrdist verid hafi helsti tilgángur hennar, líta svo á efnisvalid og seinast á medferd efnisins. Þegar litid er á þetta alt, gjøri eg mér von um, ad hvør fylgislaus og greindur lesari géti sjálfur í þad rádid, hvad mikid hæst er í því nýdi, sem J. S. eys yfir mig fyrir þad sem hann kallar „rugling í hurunar-lifi" minu. Hann byrjar á þessu útaf inngángi 1tu rædunnar, og er þá ecki af vegi ad hún sé skodud í þessu tilliti. Þad er sannast ad segja, ad hún er í flestu einna lakast úr gardi gjørd, en þad verdur þá ecki sagt eg taki helst til sýnis þad sem skást sé. Eg vona þad verdi med adgjætslu fundid: ad efnid er valid med tilliti til þesskáttar tilheyrenda, sem hafa svo dausa sidferdis tilfinning, ad þeir ætla sér leyfilegt ad breyta móti samvitsku sinni, þegar

*) Hérvid má bæta því atridi, er mér sýnist miklu varda, nefnilega: ad „J. S.", í álíti sínu um trúarlærdóma þá, sem fyrirkoma í rædunum, hefir dæmt alteins og rædur þessar hefdi verid høfudlærdómar kristilegrar trúar (Dogmatik), og haft þad augnamid ad útlista og skoda þá á alla vegu. En þad er audséd, ad þad tjáir ekki ad dæma praktiskar rædur á þennann hátt, þarsem høfudaugnamid þeirra er, ad gjøra trúarlærdómana praktiska og uppbyggilega, en ekki ad skoda, útlista og vega þá á allar sídur. Eg gjørdi einusinni þá athugasemd í nefndinni: ad rædurnar yrdi ecki dæmdar eptir þessum stránga dogmatiska mælikvarda, en þad var árángurslaust, því álitid á þeim, sem þá þegar var búid ad semja, var svo á sig komid, ad þad hefdi ordid ad umsteipa eda umbreyta miklum parti þess, ef athugasemd mín hefdi verid tekin til greinar. En høfundi og flestum meddómsmønnum mun hafa þókt álitid of fagurlega samid til þess, ad farid væri svoleidis med þad.

M. E.

þeim þykir sem einhvörjar „útvortis kringumstædur" gjøri sér þad ad naudsyn — og þeir eru vist eigi fáir, sem ætla naudsyn brjóti løg eins í andlegum efnum og veraldlegum. — Þad er tilgángur rædunnar ad telja menn frá þessari blindni og hvetja þá til meiri grandvarleika. Af því eg gjørdi ráð fyrir ad hid nýa áform, sem eg vildi kveikja hjá tilheyrendunum, mundi kosta þá strid, og lifi kristins manns er í Guds ordi likt vid strid: þá valdi eg greinina 1 Tim. 1, 18. 19. til inngángsorda, svo sem kjarna þeirra sanninda, sem rædan midadi til ad innræta Til ad snúa athygli tilh. ad efninu, er fyrst med fám ordum sannad, ad øllum sé naudsynlegt ad hlýda þessari áminningu; þad er gjort med þessum røkum: vér erum allir í stridi, og þad med tvennu móti. 1. Þegar vér tøkum þad áform í hjarta voru ad gjøra yfirbót. Þetta áform (er eg álít grundvoll alls kristilegs sidgjædis, og tel jafnvel sáluhjálp vora undir því komna ad þad komist í verk) gjøri eg ráð fyrir ad kosti svo mikid strid (þ. e. innvortis vid vorar tilhneigingar), ad allir finni sig þurfa post. áminningar vid. Enn auk þessa strids er og 2., sem mætir þegar áformid á ad framkvæmast í verkinu: strid vid freistingar sem leida af vorri køllun og útvortis kringumstædum, umbreyting á høgum vorum o.s.frv. Þetta er þad strid, sem rædu efnid átti mest ad ad hniga, og er því farid nokkrum ordum um, ad þad sé margbreytt og hættulegt. Af því eg hafdi ætlad mér ad brúka textann og honum náteingdar frásagnir Gudspjallanna um Krist til ad upplýsa, hvørnin háttad væri þeim freistingum, sem orsøkudu þetta strid, og hvad oss mætti halda til ad strida í gégn þeim, þá er nú vikid máli til Krists, bendt til, ad hann hafi átt í stridi vid samslags freistingar og stadid þær af sér, og af þessu er dregid umtals efni rædunnar: ad yfirvega o. s. frv. Í fyrra parti útskýringarinnar er textinn og honum teingdar frásagnir gudspjallanna ad nokkru leiti látin ráda þánkaskipan; þar eru teknar fram sernslags freistingar, ad nokkru leiti samkynja þeim, er mættu Frelsaranum á leidinni til pínunnar, og svo upplýst med nokkrum dæmum hvørnin þær géti borid øllum ad høndum. Þetta er gjørt til þess, ad

tilh. géti heimfært efnid uppá sig og þekkt: „hvorninn þeim freistingum væri háttad, sem gjört er ráð fyrir, að þeim verdi hættulegar, hvonær þeir væru í þeim staddir, og ridi helst á að gjæta sín og heya heidarlega stríd sitt". Í sídari partinum eru teknar fram þessar ástædur, sem eiga ad hneigja viljann til ad strída gégn þessum freistingum: 1. ad þad sé fortakslaus skyldá ad hlýda Guds vilja, hvad megn sem freistingin sé; þetta er sannad med Jesú ordum og breytni. 2. ad þad sé aldrei skadi heldur ávinningur ad hlýda Guds vilja, og þessi ávinningur sé: a. góð samvitska, b. von um laun hjá Gudi: blessunarríkann ávöxt af voru stödugljndi bædi fyrir oss og adra. Eg gét ekki fundid, ad þessar huranir séu svo vitlausar, ad þær votti neitt „trubl um sáluhjálpar verkid", eda séu á stór=miklum „ruglingi". Hitt medkénni eg: ad þánkarnir um hid tvennslags stríd, sem á er vikid í inngángi rædunnar, eru ekki svo vel útlistadir, né í svo greinilegu formi sem vera bæri, og einkum, ad þessum ordum í málsgreininni (bls. 7 [18]) „enn auk þeirrar baráttu" o. s. fr., er eigi vel fyrir komid, og ad þau koma önuglega vid, vegna þess þad er ekki tekid fram í málsgreininni á undann, ad sú barátta, sem þar er umtalad, sé vid tilhneigingar vorar; og af því ordinn „barátta eda stríd" eru ekki heldur brúkud í næstfylgjandi málsgreinum.

Med líkum hætti og þetta gjæti eg farid yfir allar ræd=urnar, tekid fram þad augnamid, sem eg hafdi med hvorri, adal=huranirnar í henni, og nidurskipan þeirra, svo greidara yrdi ad dæma um, hvörnin þetta þætti samsvara augnamidinu, og almennum þánka=reglum; en af því þad tæki meira rúm enn línum þessum er ætlad, vil eg einúngis víkja á 4du ræd=una, sem höf. nýdir mest út. Þad er tilgángur hennar ad eyda þeim hleyppidómi sem vída tekur ad brydda á: ad af því Gud rádi og stjórni öllum hlutum, þá hafi madurinn ekkert frjálsrædi í raun og veru; hann sé ósjálfrádt verkfæri í hendi alstjórnarans sem ekki géti breytt ödruvísi enn hann breyti; og af því Gud snúi öllu til góds, eins þeim athöfnum manna, sem kalladar séu vondar, svo géti ekki annad verid enn ad Gud brúki þá er þær fremji, fyrir verkfæri sitt til ad koma

framm enu góda, sem hann láti af þeim spretta; þessir hafi því ekkert straff ad óttast, því athafnir þeirra séu Guds eigid verk og gódar fyrir hønum. Þessi hleypidómur, sem er svo hagkvæmur til ad bæla nidur átølur og ógnanir samvitskunnar, lýtur þá einmidt ad því: ad vilji mannsins, eins þegar hann er vondur, sé í verunni Guds vilji*). Byrjunin til ad eyda þessum hleypidómi er gjørd í inngánginum med því ad sanna, ad madurinn hafi verulegt frjálsrædi. Þær røksemdir fyrir þessu, sem á er vikid, eru teknar 1. af mannsins medskøpudu náttúru nl. sérhvørs egin „tilfinning" og „vidurkénníng", sem eru grundvøllur þess, ad menn géta haft bædi góda og vonda samvitsku, gladst yfir gódum, ydrast eptir vondum athøfnum, fundid og ætlast til þakklátsemi fyrir velgjørdir o. s. frv. 2. af alls mannkynsins a. løgum, sem bygd eru á því, „ad allir hafi frjálsrædi", b. „háttsemi", (ad gángast

*) Þetta er einmidt sú nýa heimspekilega skodan, er sjá má af 5ta ári Fél. rit, bls. 93 o. s. fr., sem inniheldur „álit um Ritgjørdir. 1. Agrip af merkisatburdum mannkynnssøgunnar", o. s. fr. Hér segir svo: ad „sagan", med øllum hennar vidburdum, sé „spekilegt verk forsjónarinnar, „hugsan sjálfs Guds" (bls. 95); „„hvorsdagslegt starf forsjónarinnar"" (bls. 96), o. s. fr. Eptir áliti þessarra heimsspekínga á þá guds forsjón og vísdómsfulla stjórn á heiminum ad vera innifalin í því: ad allt skédur eptir guds vilja! Væri svo, kynni mørgum ad detta í hug ad efast um, hvort gudleg forsjá væri svo addáanleg, sem hún er í raun og veru. Ef verk þad, sem margar hendur vinna ad, gengur ad øllu leiti eins og verkstjórin hafdi hugsad sér þad í fyrstu, af því allir gjøra einmidt þad, sem hann vill, þá er ecki svo mikill vandi á ad vera verkstjóri. En þegar margir af þeim, sem vinna ad verkinu, breyta útaf því, er verkstjórinn í fyrstu hafdi bodid og fyrir þá lagt, annadhvort af vangá, breiskleika, eda vondum vilja, og forstjórinn ei ad sídur kippir øllu í lidinu aptur, fullkomnar verkid og nær sínu augnamidi —: mun þá ekki meiri orsøk til ad álita hann bædi vísann og máttugann? og hafa þjónar hans ekki meira frjálsrædi, enn þjónar þess forstjóra, er hefir gjørt þá þannig, ad þeir ei géta gjøri annad, enn hann vill, og eru þessvégna ad álita sem ósjálfrádt verkfæri, hjól í verksmidju eda annad þvílíkt?

M. E.

undir løg) sem sýnir ad þetta er vidurkénut af øllum. Þegar búid er ad benda á þessar røksemdir, er þad sídann upplýst í útskýríngunni bædi af adferd gydinga og med daglegum dæmum: ad þegar rád mannanna er Guds rádi gagnstædt, (þ. e. þegar þeir breyta ílla, gagnstædt því sem þeir gjæti séd ad er tilætlan og vilji Guds), þá gjøri þeir þetta „viljandi", frjálsir, og óþvíngadir af Gudi! (þ. e. þá sé vilji þeirra **annar enn vilji Guds**). Med ásettu rádi valdi eg hinar vondu athafnir manna. Til ad sánna þetta og gjøra þad ljósara hefi eg tekid fram 4 atridi. 1. Tilefnid, sem manni géfst til ad rádast til verksins (bestemme sig). 2. Ræturnar, sem áformin spretta af*). 3. Medølin, sem hann velur til ad koma viljanum fram. 4. Tilgánginn eda augnamidid sem viljinn stefnir ad. Verdi því ecki neitad ad þessi atridi séu hvørt ødru frábrugdinn, komi fram í sérhvørri athøfn sem madur fremur med øllu rádi, segi hvørs manns tilfinníngu ad hann sé frjáls, og séu hin sømu, sem løggjafarar og dómendur hafa einkum tillit til, þegar þeir meta gjørdir manna þeim til áfellis eda fríkenníngar**), og hvør skynsamur madur, þegar hann dæmir um annarra verk***): þá hygg eg sjá meigi, hvørt eg hefi oldungis „høggvid í sama farid", hvørt þessi atridi eru tekin fram úti bláinn, eda sú sundurlidan, sem eg hefi brúkad, greidir eckert úr því, hvørki fyrir skilníngi né tilfinníngu óhlutdrægra manna, hvørt madurinn, þegar hann breytir ílla, gjøri þad frjáls og sjálfrádur, eda sé þvíngadur til þess af Gudi. Eptir ad fyrst er vikid á, í seinni parti rædunnar, hvørnin þad géti verid møgulegt, er þad sýnt og upplýst af gudsp. søgnunum: ad Gud láti vondar athafnir manna verda a. til ad greida fyrir framgángi vilja síns. b. til ad vegsama

---

*) Med ordinu „Rætur", sem álitast kynni ílla valid, meinast, eins og ráda má af dæmunum sem tekin eru, þær ímislegu, betri edur lakari innvortis hvatir, sem madurinn leyfir ad gjøra áhrifu á vilja sinn.

**) Sbr. Tilskip. 11 Apr. 1844 § 3, 4, 11, og Tilsk. 15 Apr. s. A. § 2, 3, 8 og fl.

***) Sjá t. a. m. Fjøln. og Ein. F. bls. 34 l. 25—30.

réttlæti sitt. Þetta er tekið fram einkum til að sýna, að það samband, sem er milli Guðs vilja og enna vondu athafna mannanna, sé *ósjálfráðt þeim*, er þær fremja, og að þeir géti því hvorki eignað sér hið góða, sem af þeim flýtur, né vænt að sleppa fyrir straffi, þar þeir í öllum þeim atriðum, sem þeir voru sjálfráðir og áttu að æfa frjálsræðið á, höfðu *viljandi* breytt „móti" Guðs vilja*). Að ræða þessi sé ófullkomin í mörgum greinum, sem höf. ekki hefir áhrært, meðkénni eg fúslega, t. a. m., að það er yfirsjón að hleypidómur sá, sem hún er stíluð á móti, er ekki tekinn fram í Inng., svo stefnumið hennar er ofmjög á huldu og margt fl.

Jafnframt því sem höf. vill sýna, eg kunni hvorki að hura né tala, reynir hann all-kappsamlega til að gjöra mig að villu-manni. Færir hann það einkum til: að eg „halli ávalt á guðdómsnáttúru og guðdómseðli Krists, kénni um hann

*) Það sem höf. seigir hér um sambandið milli mannlegs frjálsræðis og guðlegrar stjórnar, hygg eg rétt að vera; það er einmidt einkunn frjálsræðisins, að sumir, með ásetníngi, optlega gégn annara vilja og eigin tilhneigíngum, gjöra það, sem þeir álíta rétt að vera og guðs vilja samkvæmt; aðrir þarámóti gjöra það, sem þessu er gagnstæðt, fylgjandi sínum eigin vilja og tilfinníngum. Nú lætur Guð að vísu gott fljóta ogsvo af hinum vonda gjörðum mannanna, en í því eiga þeir eingann þátt, það kémur þeim „ósjálfráðt", eins og höf. seigir. Þegar nú að er gáð: að afleiðíngar hinna vondu verka stundum eru allt aðrar og öðruvísi enn nockrum manni gat hugkvæmst, að þær mundu verða, og þegar að er gáð: að guðleg forsjón stundum mætir vondu verkunum á miðri leið, og lætur þau ekki leingra fara: þá íminda eg mér, að hvor heilvita maður, sem ekki er ær orðinn af því, er menn vyrðast að kalla „speki" þessa „heims", muni skynja: að hin vondu verk mannanna séu ekki guðs vilja samkvæm, séu ekki „spekilegt verk forsjónarinnar", „hugsan guðs sjálfs" eða „hvorsdagslegt starf forsjónarinnar", eins og hinir nýu heimsspekíngar að orði kveða. Að vísu hefir J. S. ekki brúkað þau orð, sem hér eru cíteruð, til hvors eg bendti í skíríngagrein á 15 bls., en það er ofurhægt að sjá, að skoðan hans á frjálsræði mannsins og sambandi þess við guðlega forsjón, er spunninn af sama toga. (Sjá viðbætirinn.) **M. E.**

það, sem berlega sé gagnstætt ritningunni og trúarjátningunum í kristilegum trúar-atriðum". Áður þessi sakargift er rannsökuð, bið eg menn gjæti þess: að af því flestar ræðurnar miða beinlínis til siðbóta, þá hafði eg brýnast tilefni til að tala þar einkum um Frelsara vorn að því leiti sem hann var sannur maður, og verður settur øðrum þannig til fyrirmyndar, að þeir géti ekki með sanngyrni talið sér ofvarið að breyta eptir hønum. Eg meina það allskostar leyfilegt að haga sér þannig; — sjálfir guðspjallamennirnir og postular Krists minnast hans optlega svo, að þeir taka ekki fram Guðdómsnáttúru hanns (t. a. m. Luc. 2, 52, og á morgum áþekkum støðum í guðspjøllunum; Post. Gjørn. 2, 22. 17, 31.; Romv. 5, 15. 8, 3; 1 Timoth. 2, 5; Hebr. 2, 11. 3, 2; 1 Pet. 2, 21 og lángtum víðar). Þeir staðir í ræðunum sem J. S. hefir hneirlast á, gáfu mér því ekkert tilefni til, að taka fram Guðdómseðli Krists fremur enn gjørt er, en þar sem hof. seigir eg „halli ávallt á guðdómseðli Krists og kénni um hann það, sem berlega sé gagnstætt ritningunni", þá uggir mig hann meigi betur vanda til røksemdanna fyrir þeim framburði, áður þeir dómarar samsinna hønum, sem sanna kollum hafa til að skéra úr því-máli. Hann vill sanna þetta strax af inngángi 1tu ræðunnar. Þar stendur svo: „vér høfum allir ýmsu við aðra að skipta; vorir hagir og kjør breytast margvíslega, og alt þetta veldur því, að vér optsinnis komum í efasamar kríngumstæður; að þau tilfelli mæta oss, hvar vér eitthvað þurfum úr að ráða, ...... þegar skyldan krefur oss til að framkvæma nokkuð það, sem oss er torvelt, hættusamt, ógéðfelt: þá koma strax kríngumstæður, sem vekja hjá oss efasemdir, ...... slíkar kríngumstæður meiga heita freistíngar; því þær tæla tíðum vort breiska hjarta. Í þessum kríngumst. finnum vér vorn Frelsara staddann." — Hér vill hof. láta mig hafa sagt: að Frelsarinn hafi verið staddur í kríngumstæðum, sem vøktu „hønum efa". Allir géta séð, að eg hefi útskýrt orðin: „efasamar Kríngumst." með því er strax fylgir: „hvar vér eitthvað þurfum úr a. r., að eg hefi einúngis sagt: að Frelsarinn hafi verið í kríngumstæðum, sem vekja efasemdir „hjá oss", hafi ratað í

freistingar, sem tæla „vort breiska" hjarta. Hafi eg ként það hér, eins og höf. ber fram: að frelsarinn hafi verið staddur í kríngumstæðum, sem voktu hönum efa, þá hlýtur hann að álykta þannig: Hvör sem kémst í krst., sem vekja efasemdir hjá öðrum, hann kémst í krst., sem vekja efa hjá sjálfum hönum; N. hefur kénnt: að Kristur hafi verið í kríngumst., sem vekja efasemdir hjá öðrum; þessvegna hefur hann kénnt: að Kr. hafi verið í krst. sem voktu efasemdir hjá sjálfum hönum. Þetta er líkur ályktunarmáti og sá, er Erasmus Montanus brúkaði til að sanna, að Pétur Djákni væri „hani"! Höf. þykist sannfærður um að þetta sé rétt skilið, af öðrum stöðum í ræðunum, en — hann nefnir ekki hvorjir þeir sén. Eg hefi að vísu sagt á öðrum stað, að Kristi hafi mætt þær krst., sem hefðu mátt freista hanns (= gétað géfið hönum tilefni til) að gjörast ótrúr sinni köllun. Það er að seigja, eg hefi kénnt: að Kristur hafi verið freistaður, og gjört ráð fyrir hann hafi gétað freistast; þó hefi eg hér einúngis talað um útvortis freistingar. En — er þessi kénning svo spáný? Matthæus (4, 1.) kénnir: að Kristur hafi verið freistaður af djöflinum; að hann hafi sagt við Pétur: vik frá mér satan, „þú ert mér til ásteitingar!" (Matth. 16, 23.); höf. bréfsins til enna hebresku seigir: að Kristur hafi „hlotið í öllu að gjörast líkur bræðrum sínum; hafi sjálfur mátt kénna á freistingum (Hebr. 2, 17. 18); sé freistaður á allann hátt eins og vér, þó an syndar, (Hebr. 4, 15.). Annað eða meira enn hér er berlega sagt, hefi eg víst eigi kénnt. Eg ætla ekki að meina nokkrum manni að útleggja þessar ritningargreinir eins og hann vill; ekki að neita því, sem alkunnugt er, að orðin „freistni" og „að freistast", þýða líka: „raunir", „reynslu" og „að reynast", en þess leyfi eg mér að spyrja hvorn skynsamann mann: hvört það géti haft „nokkurn tilgáng", að láta þann koma í reynslu og reynast, sem eingin reynsla gétur haft „neina áhrifu á"? —— Hvört Kristur gat verið sannur maður, ef guddómsedli hanns var þannig háttað, meðann hann umgékkst hér á jörðunni, að einginn reynsla gat tekið neitt á hann? — — Hvar þess sé gétið, að hann hafi sýnt þetta í

háttalagi sínu? — Hvørninn hann hefdi þá átt ad „læra hlýdni af því er hann leid" (Hebr. 5, 8.), og hvad greinin Hebr. 2. 18. géti þá hafst ad þýda?

Høf. vill enn fremur sýna, eg hafi gjort Krist ad syndara, med því, ad hann telur þad mín ord og audkénnir med innvitnunar-merkjum: ad Kristur hafi vitad þad var vilji Guds, ad hann lidi kvalir og dauda, en á 15du og 16du blf. hafi eg sagt: ad hann hefdi gjarnan óskad ad komast hjá píslarvættisdauda, og umflýa þær kvalir, sem fyrir hønum láu." Þad er merkilegt, ad Herra J. S. hefir ekki viljad hafa rétt eptir þessi fáu ord! Þad er eins og hann hafi óttast, ad lesendur sínir mundu ekki samsinna því, ad eg hefdi kénnt Kr. med þeim um neitt er syndsamlegt var, nema þau væri afbøkud og stolid úr þeim eins og gjort er. Þessa hefir hann hurad ekki yrdi gjætt, síst af þeim sem ekki ættu kverid. Eg hafdi sagt, á 15 blf.: ad Kristur hefdi vitad ad hann „heldur" skyldi lida kvalir og dauda „enn hverfa á flótta", og á 16 blf.: „hvørsu gjarnan hefdi hann óskad ad umflýa þær kvalir, sem fyrir hønum láu, hefdi þad gétad stadist med Guds vilja!" *). Þetta kallar J. S. „mótsagnir og vandrædi,

*) Eins og ákjæra sú um „mótsagnir", er J. S. (Fél. rit., 135 blf.) þykist hafa fundid hjá høf. prédikananna í þessu atridi, er ástædulaus, þegar greinir þær, er finnast í rædunum (15, 16 og 17 blf.) eru rétt cíteradar: eins detta ogsvo þær ályktanir, sem J. S. hefir byggt á þessum greinum, af sjálfu sér um koll, þegar seinni parti setningarinnar á 16—17 blf. ekki er sleppt, og ekkert er afbakad. Einmidt med því ad útiláta þau ord: „hefdi þad gétad stadist med Guds vilja", sem ómøgulega mátti útiláta, hefir J. S. feingid þá meining útúr ordum høfundarins: „ad Kristur hafi óskad ad koma sér hjá Guds vilja", — jafnvel þó þad: „ad Kristur hafi óskad ad umflýa þær kvalir, sem fyrir honum læi, hefdi þad gétad stadist med Guds vilja", sé alt annad enn: „ad Kristur hafi óskad ad koma sér hjá Guds vilja" — og sídan leidir hann aptur þar útaf: ad høf. hafi gjørt Krist ad syndugum manni, þared þad „sé syndsamlegt, ad vilja komast hjá Guds vilja og eigi einungis heima hjá þeim, sem eru undir valdi syndar og spillingar". Þetta er nú ad vísu satt í sjálfu sér; en bádar

sem eg komist í"; eg sje einga mótsögn hèri, þegar hvorig klausan er afbökuð; þetta kallar hann „að hallast á Guðdómsnáttúru Krists" og kénna „það sem gagnstætt sé rítníngunni". — En hvað kénnir þá ritníngin um þetta sem eg hefi sagt? Skoðið þèr sjálfir les. g.! Matth. 16, 21—24. 20, 18. 19. Jóh. 12, 23. og þar frameptir, um Jesú viðbúning við dauða sínum; er þar ekki líka sýnt og sagt: að Jesús hafi vitað, hvað yfir hann mundi koma? Er það ekki bert, sérílagi af Matth. 16, 23. og Jóh. 18, 4., að Jesús áleit það Guðs vilja, að hann skyldi heldur líða kvalir og dauða enn hverfa á flótta? Um þetta hefi eg þá víst eigi kénnt neitt móti ritníngunni. Það á þá að vera í hinu: að Jesús hafi óskað að umflýa þær kvalir sem fyrir hönum láu, hefði það gétað staðist með Guðs vilja. En — ljúga þeir því þá Guðspjallamennirnir þegar þeir hafa þetta eptir hönum: „nú er sál mín óróleg, faðir! frelsa mig frá þessari stundu" (Jóh. 12, 27.); „Faðir minn! ef mögulegt er, þá víki frá mér þessi bikar; þó ekki eins og eg vil" o. s. frv. (Matth. 26, 39.); „abba faðir! alt er þér mögulegt, lát þennann bikar víkja frá mér" (Marc.

þessar meiníngar eru auðsjáanlega ránglega leiddar út af hinum áminnstu orðum höfundarins. Eg hefi tekið þetta fram, af því höf. hefir ekki, að mér sýnist, gjört það nógu stuttlega og greinilega. Þetta var í rauninni nóg til að hrinda þessum ákjærum. En höf. hefir þesshtan sannað, að hinar áminnstu greinir, óafbakaðar, séu ritníngunni samhljóða, og þarmeð sýnt: að hann ekki „kénni það (um Krist), sem berlega er gagnstætt ritníngunni". Mig furðar stórlega á því, að J. S. skuli hafa farið þannig að ráði sínu, og ætlaði honum ekki, að hann hefði rángfært, þó eg sæi, að álitið væri íllyrmislegt. Hefði mér og öðrum nefndarmönnum dottið það í hug, hefðum við gáð að, hvornin það stóð í ræðunum, þegar álitið var upplesið, en þeir hafa sjálfsagt, einsog eg, haldið, að alt væri rétt citérað. Eg sje ekki hvornin slíkt verður forsvarað. Hefði eg farið eins með rit Prof. Martensens, hvað mundu menn þá hafa sagt? En það fér betur, að einginn mun géta sýnt í öllu því, er eg hefi skrifað ámóti honum, að einn einasti staður í ritum hans sé þannig rángfærður.

M. E.

14, 36.); eda hvad merkir þessi „stund", sem Jóh. seigir Jesús hafi bedid födurinn ad frelsa sig frá, og Markús ad hann hafi bedid hjá sér mætti lída? De Wette meinar hún merki tímabil daudans (Zeitpunct des Todes), og þessi bikar? — Miklir trú-menn, nafnfrægir gudvitríngar, miklu nafnkéndari fyrir hvortveggja enn þessi Herra J. S. er ordinn enn, t. a. m. Schott, Thóluck, Olshausen, de Wette, H. N. Clausen og fl. hafa tekid hér ordid bikar sumir fyrir lídanir, sumir fyrir dauda Krists, og allir ad vísu fyrir eitthvad af hormúngum þeim, sem yfir hann lidu; og eingann veit eg fyrr hafa neitad því, ad Kristur hafi meint lídanir med ordinu bikar, bædi í þessari bæn sinni, og hjá Matth. 20, 22. (sbr. Es. 51, 17. 22. Jer. 49, 12.). Høf. má seigja af því hljóti ad leida hvor óskop sem honum sýnast, þad má þrútna af því kvidur hanns eins og beisku bølvunar vatni, svo mikid og leingi sem vera vill: þad er þó ei ad sídur af morgum, eg held flestum, vidurként ad vera kénning rítníngarinnar eins vel og mín: ad Jesús hafi vitad hann átti ad lída kvalir og dauda, kallad þetta bikar géfinn sér af fødurnum, kannast vid sér væri skyldt ad drekka hann (Joh. 18, 11.), og þó, ei ad sídur, bedid födurinn, ad taka þennann kaleik frá sér, ef skéd gjæti og fadirinn vildi! (þ. e.: óskad sér ad umflýja kv. og d., ef þad gjæti stadist med G. v.). Hitt held eg fremur meigi kalla spánýtt, sem Herra J. S. sýnist vilja gjøra, ad reikna Kristi þessa bæn til syndar, eda gjøra hana ad bletti á Guddómsnáttúru hanns; og þó høf. vilji støkkva yfir, bæla nidur, eda bødlast í ad rángfæra þessa eda adrar ljósar kénníngar N. T., til ad fegra Krist, þá efast eg um ad Kristur kunni honum fyrir þad neinar þakkir. Sól réttlætisins þarf þess sannlega ekki med, ad reynt sé ad skygna hana med neinum lygabrákum. — — Sú hugprýdi, sem rítníngin vottar ad Kr. hafi sýnt, og viljad kénna med dæmi sinu, var hvorki falin í því, ad hann væri né sýndi sig tilfinníngarlausann í reynslu eda lídunum; sá kraptur, sem hann sigradi og kéndi ad sigra med, var eingin ónáttúrleg hardneskja, heldur hinn gudlegi kraptur, sem er máttugur í veikleikanum. Vér høllum alls ekki á Guddóms-

náttúru Krists, né víkinn frá h. ritníngu, sem trúum og kénn-um: ad hann hafi verid sannur madur eins vel og sannur Gud, medann hann umgékkst á jördunni, né þó vér tökum þad fram, þar sem oss þykir hlýda, sem ritn. vottar og hans æfisaga sýnir: ad hann hafi ad allri hegdan verid fundinn sem madur, og sé oss ad öllum syndlausum veikleika líkur ordinn. Vér vidurkénnum þad sé veikleiki, en stöndum jafn-framt á því, ad þad sé syndlaus og óspilltri manns-náttúru edlilegur veikleiki, ad finna vidkvæmilega til kvída fyrir út-skúfun, misþyrmingum, píslum og dauda, og því gétur einginn neitad, sem fylgislaust les nidurlag Jesú æfisögu, ad hann hafi fundid til þessa veikleika. Hann gékk ekki til dauda síns med sömu hardbrystni sem kappinn í bardaganum; ekki med neinum blyndnis-ákafa eins og sumir píslarvottar; heldur med þeirri samstemmu og lifandi vidkvæmni allra mannlegra tilfinnínga, sem eiginleg er hreinni og blídri sálu — þeirri vidkvæmni sem einginn syndugur kann fullkomlega ad géta ímindad sér! — med þessari vidkvæmni fann Jesús í grasgardinum til allrar beiskju þess bikars sem hann átti af ad drekka, og vér gétum ekki annad enn fundid þad hjartnæmt og huggunar-ríkt med postulanum, ad hafa einmidt þvílíkann medalgaungara, „sem líkur vard brædrum sínum í öllu", og fann þannig til alls þúnga mannlegs veikleika og lidana, „ad hann gjæti sampínst vorum veikleika" (Hebr. 2, 17. 4, 15.), undir eins og þad er lærdómsríkt, ad hann kénndi oss ad sigra þennann veikleik med krapti bænarinnar. Bæn hans lýsir ad sönnu ómótmælan-lega þeirri ósk, ad þessi bikar mætti frá honum víkja, en þarsem hann strax jafnsídis felur þetta vilja födursins, þá er alls eingin ástæda til, ad ætla þessi ósk hafi numid svo leingi stadar, ad hún hafi í enu minsta saurgad hreinleika Jesú sálar.

Lorins vill hof. gjöra mig sekann um trúvillu fyrir þad eg hafi sagt: ad Jesú hafi hlotid ad vera hulin sú blessan er leida mundi af dauda sínum fyrir mennina, þó rángfærir hann meiníngu mína med því ad stela úr ordum mínum og afbaka þau, og slær sig sídann til riddara á því, ad hrigg-

brjóta aptur það lygafóstur, sem hann sjálfur hefir úr henni skapað. Eg hafði einúngis sagt: að Jesú í standi niðurlægíngar sinnar hefði að nokkru leiti hlotið að vera hulið, hvað mikil yrði sú blessan o. s. frv. Þau Jesú orð sem höf. færir á móti þessu, snerta því ekki það er eg hafði sagt, og sanna alls ekki það, er hann vill láta þau sanna. Jesús seigir: ef hveitikornið fellur í jörðina, færir það mikinn ávöxt; hann seigir ekki hvað mikinn? Þar sem hann seigist muni draga alla til sín, þegar hann verði frá jörðu hafinn, mun þó verða að undirskilja: „þá er meðtækilegir verði fyrir það", en hann talar ekki um, hvað margir þessir muni verða; hann seigir við lærisveina sína: það er yður ábati o. s. frv. ekki hvað mikill. — Höf. reisir ekki alllitið hanakambinn yfir því, er stendur á 15ðu bls. „það sýnist jafnvel hafa heyrt til hans (Jesú) niðurlægíngar, að hans Guðdómsspeki" o. s. frv., og þykist ekki þola að kénnimenn kyrkjunnar kénni það, sem berlega sé gagnstætt ritníngunni og trúarjátníngunum!!! En hvörnin fer nú, ef hann gétur ekki sýnt fullmagtina, sem géfi hönum neinn dómara-rétt yfir kénníngum vorum; ef vér vísum honum ofanaf stólnum, og viljum ekki viðurkénna hann þann herra, sem vér stöndum né föllum fyrir kénníngar vorar?? Hann kémur þá með andlegu fullmagtina! En ef hún væri nú litið gyldari? — Ef hann væri svo fátækur í anda, að hann yrði sjálfur að hoppa kríngum trúaratriðinn, sem hann er að vandlæta fyrir, eins og kisa kríngum heitt soð, og yrði það á, að brúka ritníngargreinirnar fyrir árétti í axarskopt: þá kynni einhvör að meina, hönum hefði sæmt eins vel að fara hægra í bráð, leiðrétta þá sem hann hefði þóttst vilja leiðrétta með dálitið hógværri anda, en láta vera að rista Biskupi sáluga Steingrími þann „þussastaf", sem hann hefir gjört og svogott sem reist uppá gröf hans, fyrir þann dóm er hann hafði lagt á ræður m. í boðsbréfinu. — — Hvað þeim trúarjátníngum viðvíkur, sem höf. er að brasta með, þá er óskoðað, hvört hann hefir lesið þær eða þau rit, er útskýra þær, sem best ofanní kjölin, í því er áhrærir sambandið milli guðdóms- og manndómsnáttúru Krists í hans niðurlægíngar standi. Hann ætlar

ad gjora sig hvatvísann yfir minni skodan á guddómsnáttúru Krists, er hann seigir hún lúti ad því, ad eg álíti hana eins og fat, sem hann hafi gétad fært sig úr og í. Þó þetta séu ekki beinlínis ord mín, þá geingst eg vid, ad þeirri meiníngu bregdur fyrir í rædunum, ad Kristur muni hafa gétad brúkad sína guddómlegu eginlegleika edur guddóms-hátign þegar hann vildi og ekki þegar hann vildi. En hvornin ætli sú hugmynd sé nú í laginu, sem höf. hefir búid sér til um sambandid milli náttúra Krists? Þad er ekki svo hægt ad sjá*); trúarfrædi hanns er ekki komin út enn, og þetta álit hans lendir mest í því ad rángfæra, snúa útúr og mótmæla því er eg hafi sagt; hitt er eins og hann varist, ad láta svo skýlaust í ljósi hugranir sjálfs sín um þau atridi, sem honum þykir mér hafi glapist í, ad neinn géti fest sig á. Eptir því sem næst verdur komist af vafníngi hanns, gét eg ekki betur

*) Þó „ekki sé svo hægt ad sjá" hvornin J. S. mundi framsetja þennann Lærdóm, má þó vel sjá, hvornin hann verdur eptir hinni heimsspekilegu skodan á Gudi og manni, hvorri J. S. helst sýnist ad vera áhángandi. Þad svo kallada samband verdur ekkert samband í eiginlegum skilníngi. Hinir nýu skarsýnis-heimsspekíngar og Gudfrædíngar (speculative Philosopher og Theologer) kénna sumsé: ad Gud og madur, þegar hann er eins og hann á ad vera, séu eitt í veru og persónu (ere „Eet i Væsen og Person"). Vera hins góda manns og vera Guds verda þá ekki tvær verur, heldur ad eins ein vera. Nú var Kristur allra manna bestur og fullkomnastur; þessvegna verdur hann, skodadur eins og madur, sama vera eins og hann er skodadur sem Gud, eda med ödrum ordum: hans guddómlega nátiúra verdur þad sama sem hans manndómlega náttúra. Af því nú guddómsnáttúran ad minnsta kosti er eldri enn manndómsnáttúran — þó hún líklega ekki sé ædri, þarsem bádar eru eitt — þá er ekki ólíklegt ad hún rádi, svo ad Kristur verulegast og eiginlegast verdi Gud, og er þá audséd, ad ei þarf ad tala um „sambandid" milli guddóms- og manndóms-náttúru Krists, þar þær adeins eru ein, í veru sinni guddómleg náttúra. Þad er þá líka audskilid af þessu: ad menn „halla á guddómsnáttúru Krists" undir eins og menn seigja eitthvad um hann, sem er einúngis mannlegt. **M. L.**

séd, enn hann vilji gjøra úr Kristi eitthvørt kynstur eda vofu i mannslíki, sem verdi jafnfjarstædt skynsamlegri hugmynd um sannann Gud og sannann mann. Af adfyndni høf. á 132 bls. (þar sem hann kallar spánýtt ef sagt hefdi verid, ad Kristur hefdi komid í þær kríngumst., hvar hann eitthvad þurfti úr ad ráda), sýnist þad meining hans: ad Kristur hafi verid svo án frjálsrædis til ad velja hvort heldur rétt eda rángt (sine libert. contrarietatis), ad honum, eptir ásigkomulagi náttúru sinnar, hafi verid ómøgulegt ad syndga (omnino & proprie impeccabilis); en — þá var hann ekki sannur madur! og þegar høf. gétur ei samist vid, ad Kristur hafi nokkurntíma — ekki heldur medann hann píndist og dó — gétad afklædst neinu af Guddómsnáttúru sinni, en neitar þó ad líkindum ekki því, ad Kristur hafi (vere non putative) lidid kvalir og dauda, þá sýnist mér hér gjægast alskøpud fram hjá høf. sú hugmynd: „ad hinn allstadar nálægi, almáttugi, sæli og ódaudlegi Gud, hafi verid tekinn til bauda, húdstrýktur, krossfestur og drepinn í Kristi!"*) Þetta fóstur sýnist ad sønnu nokkud aplalegt, en þad er nógu vænt handa Herra J. S. til ad rída því vid einteiming heim á kotbæina, þegar hann er ad reyna ad siga út alþýdunni á móti mér fyrir gudlast og villur. Þad er skadi hann hefir ekki tekid fram greinirnar úr ritningunni

*) Þad er einginn efi á, ad einmidt þessi lærdómur liggur í skodan þeirri á náttúru Krists samt guddóminum yfirhøfud, sem nú er farin ad tídkast medal hinna nyrri philosophisku gudfrædínga (spe-cúlantanna), sem látast sameina og gjøra eitt úr gudfrædi og heims-speki; því þegar allur guddómurinn („det hele guddommelige Subject og den hele guddommelige Substants") eins og Prof. Martensen seigir, er í sérhvørri persónu þrenníngarinnar, sem hann kallar „Existentsformer" (tilveru-hátt eda tilveru-máta guddómsins) — sjá „Bapt. og Barned." bls. 337 og mitt annad rit: „Tro, Overtro og Vantro" bls. 61 Anm. —: svo er audsært: ad allur guddómur fødursins var í Kristi og ad Gudfadir, sem var í syninum Kristi (eda var ordinn ad syni), þannig hefir mátt lída alt þad, sem Kristur leid. Þetta flýtur naudsynlega af þesskonar þrenníngarlærdómi, þó menn kanské vilji ekki kannast vid þad, eda séu svo blindir, ad þeir sjái þad ekki. M. E.

eda ordin úr trúarjátningunum, sem hann hefir skapad þetta fóstur úr, né sýnt, hvornin hann fór ad því! Staklegt er þad fyrir höf., þar sem hann er hér ad leggja mig í einelti einkum fyrir álit mitt á alvitsku Krists í hans nidurlægingarstandi, ad hann rámar ekkert í þær ritningargreinir, hvar Kristur talar um rádstafanir er fadirinn hafi sett „í sjálfs síns vald" (postg. 1, 7.), um daga og stundir, er einginn viti „nema fadirinn einn" (Matth. 24, 26.), „og ekki sonurinn!" (Marc. 13, 32.); ad hann þekkir ekkert til hvornin eldri né ýngri Gudfrædingar og merkustu kénnimenn kyrkjunnar hafa ritad og ad ordi komist einmidt um þetta efni. Aldrei hefi eg heyrt ad Lúther og þeir, sem eptir hann komu nokkru seinna á nýu öldunum, t. a. m. þeir sem samanntóku einingarformid (form. concord.), hafi nú á dögum verid sakadir um vantrú, eda þótt of frír í útlegging ritninganna, ekki heldur hyrdprestarnir í Dresden, Reinhard og Ammon, ellegar Pétur biskup Mynster, þó skil eg ekki betur enn álit þessara á samb. milli hinnar guddómlegu og manndómlegu náttúru Krists sé einmidt hid sama, sem Herra J. S. spottast ad hjá mér. Í einingarforminu standa þessi ord, þar sem talad er um Krist í standi nidurlægingar hans: „ena guddómlegu tign sína auglýsti hann eptir frjálfasta vilja, hvonær og hvornin sem honum sjálfum sýndist; en — eins og post. ad ordi kémst — minkadi hann sjálfann sig, og — eins og doct. Lúther kénnir — hafdi hana í leynum og brúkadi hana ekki altjafnt, heldur svo opt sem honum sjálfum sýndist (neqve eam [i. e. majest. div.] semper, sed qvoties ipsi visum est, usurpavit). Ad ordid tign innibindi hér svovel alvitsku Krists sem adra guddóml. eiginlegleika hans, held eg ei efasamt. „Nidurlægingarstandid" — segir doct. Reinhard í Trúarfrædi sinni — „er þad ástand Krists í hvorju hann vildi án þess vera, ad brúka guddóml., eiginlegleika, medann hann lifdi medal mannanna" (ea Xti conditio, in qva attrib. div. usu, dum inter homines viveret, carere voluit). Doct. Ammon: „Gudssonur klæddi sjálfann sig úr enum himneska verdugleika" (exuit filius dei se ipsum dignitate coelesti). Doct. Olshausen meinar: ad Kristur hafi

á leyndardómsfullann hátt verið yfirgéfinn af Gudi i dauda-stridi hans. Doct. Mynster segir medal annars um Jesúm í grasgardinum (41 hugl.): „O! á þeirri stund, er Jesús striddi við daudann, var hann adeins búinn ad leggja grundvøllinn til musteris þess, er hann ætladi ad byggja, hann átti mikid eptir ad seigja lærisveinum sínum; mundu þeir vilja taka móti anda sannleikans? ..... mundu þeir vardveita minningu hans og elska hann eptirleidis og gjæta hjardar hans? .... Og á þessum myrkranna tíma hafdi Jesús slepptallri gud-legri dýrd sinni, og ljós himnanna áttu ekki ad lýsa skélfdri sálu hans med byrtu sinni, ...... hann var um þessar mundir eintómur madar, þó syndlaus, hann vissi hvørki stund né tíma, því þad var á valdi fødur-sins" o. s. frv. Ekkert af þessu hefir hinn hálærdi Herra J. S. heyrt eda séd! — ekkert af því, sem hinir nýustu bibliuútlegg-endur rita og kénna daglega um þetta efni, í sumum grein-um øldúngis samhljóda minn, en í sumu miklu fjarstædara hans áliti á guddómsnáttúru Krists, eda hafi hann heyrt þad, því stekkur hann þá svo afkáralega uppá nef sitt vid mig?

Høf. þykir þad andvyrdilega til orda tekid um Krist: „espad gédsmuni h."; en ef ordin: „lund, géd og gédsmunir" eru hartnær eda øldúngis sømu þýdingar í daglegu tali og ímsum ordum, sem af þeim eru samansett (gódlyndi, gédgjædi gjæsku = géd), þá hefir þó Sira A. Helgasyni ekki þótt óhæfa ad komast líkt ad ordi um Krist í rædunni á 12. S. e. Tr., er hann seigir: „ekki espadi sú tilhurun lund hans", og allmargir íslendingar (ekki samt, ef til vill, eins hreintrúadir og Herra J. S.!!) hafa látid sér þetta ordatiltæki vel lynda. Høf: telur þad hid andvyrdilegasta lof, sem Kristi hafi verid borid: „ad eigin-gyrni hafi verid honum fjarstæd." Eg var ekki neitt beinlínis ad hrósa Kristi med þessum ordum, heldur vekja med þessari bend-ing athygli annara; høf. verdur hér því heldur skakk-skeytur, eins og vidar, og þad svo ferlega, ad eg sé ekki betur enn ør hans stefni beint uppá Pétur post., sem hafdi ordid á, ad bera Kristi þad audvyrdilega lof: „eingin svik fundust í hans munni, hann formælti ekki í móti þegar hønum var formælt" (1 Pet. 2, 22).

Svik og formælingar eru samt vísast gøfugri, og standa á efri hillu í hurunarlisti høf. enn eigingyrni, og meiga ekki teljast med „endemi lastanna"?! — Sira Arni hefir líka í rædu þeirri sem ádur er nefnd, vissulega óvyrdt Krist eptir smekkløgum høf. med þessum lofstýr: „aldrei fannst hjá hønum (Kristi) einþykkni eda sérlyndi — hann tældi (vini sína) aldrei med svikulli von." — Ekki er fundid ad þessu í álíti Fjølnis um prédikanir Sira A. — og hefir þó sánm þótt drjúpa ofhrøpum af því gódgyrnin! — og sjálfur Herra J. S. vyrdist nú til ad játa, þær eigi „mikid lof skilid." Loxins verdur høf. svo hamstola útúr vandfýsni sinni fyrir Krist, ad hann sjer ekki frá sér veginn, og stefnir rétt á nasirnar á Esaia spámanni med einn snoppúngin, sem hann ætladi mér. Þér trúid þessu ekki lesendur gódir! enn skodid þér hvort þad er ekki satt. Kallid þér þad ekki snoppúng fyrir spamann, annann eins spámann, annad eins skáld og Esajas, ad slíkur „køgursveinn", eins og eg held einmælt verdi fyrst um sinn ad þessi J. S. meigi metast hjá hønum, skuli kalla samlíkingar hans „smekklausar og ósæmilegar"?*) Eg hura þér kannist vid, ad Jesús og Messias er sama persóna, og ad margir ydar haldi enn med Filippusi (postg. 8, 32—35.) Lúther og fleirum vid þá trú, ad Esaias hafi verid ad tala um Messias í 53 Kap. bókar sinnar, t. a. m. í 7du v., þar sem hann seigir: „hann lauk ei upp munni sínum, sem lamb þad, er til slátrunar er leidt; eins og sauðurinn þeigir fyrir þeim, er hann klippir." Þó þad sé nú sitt hvad ad þeigja eins og saudur og vera verjulaus einsog saudur, þá er þó Messiasi líkt vid saud af spámanninum í þessari grein. Annadhvort hefir høf. aldrei heyrt hana né lesid, ellegar hann hefir feingid íllt í augad ádur hann las hana út. Já! þad eru

*) Sumir af hinum merkustu medal kirkjufedranna, t. d. Hjeronymus, hafa ei ad eins kallad Esajas: „spámann" og álitid hann svo, heldur hafa þeir og látid sér um munu fara: ad hann jafnvel fremur ætti ad nefnast: gudspjallamadur („evangelista") vegna þeirrar háleitu andagiftar, er svo ad seigja hefir opinberad hønum leyndardóma kristilegrar trúar. M. E.

sannlega ekki svo mjøg þau ord, sem eg hefi brúkad um Krist, er hneixla Herra J. S., einsog angad, sem hann les med; eg vil því géfa honum gott rád: stíngi hann þad út! Þad er vissulega gallad (πονηρός), á gamla íslenzku: skálkur! en þad er ekki svo affara gott ad gánga leingi med þessi skálka-augu! sjá (Matth. 18, 9.).

Eg hefi ádur sýnt svo augnamid og innbyrdis samband þess, er talad er í 4du r. um „frjálsrædid," ad eg hygg þad styrki þá, er þess vilja gjæta, til ad sja hvada rángindi hof. fer med, þar sem hann er ad spinna útúr medferd minni á þeim lærdómi. Þad er svo gjørsamlega ósatt, ad eg hafi ætlad ad gjora ljóst í rædunni „sambandid milli frjálsrædis og forlaga", ad eg hefi ekki svo mikid sem nefnt þar þettad ord (eg kannast ekki vid þad eigi sér stad á kristilegum grundvelli), því þarsem hof. segir: ad þad, sem eg kalli rád Guds eda „forsjón" (eg hefi ekki heldur brukad þad ord!), sé ekki annad enn þad sem menn almennt kalla forløg, þá er því eins og hinu skrøkvad úti bláinn. Eg þekki ekki ønnur „forløg" enn hid ósýnilega, almáttuga hardstjórnar-vald, sem heidingjar meintu ad hefdi ákvardad svo allar gjørdir manna og kjør, ad allt væri óumflýanleg naudsyn, og veit eg ad sumir brúka ordid forløg ennþá í þessari merkingu, einkum þegar þeim liggur á ad skjóta á þau skuld fyrir klæki og sjálfskaparviti, er þeim þykir skømm ad kénna sjálfum sér; en þad er hvervetna ljóst af rædunni, ad eg vidurkénni þar alls ekki þetta vald. Og þó eg hafi þar hvørgi nákvæmlega takmarkad, hvad eg skil med ordinu „Guds rád", og brúki þad í nokkud mismunandi merkingum, þá er þó hvørjum manni audsært, ad eg hefi ekki brúkad þad í neinum þeim skilníngi, sem nálægt komi þessari forlaga merkingu. Eg hefi sýnt í rædunni þad sem er gagnstædt þessu: ad sidferdis vonskan væri ekki Guds rád í þeim skilníngi, og reynt ad gjora þetta tilfinnanlegt hvørjum þeim, sem ekki vill þvert á-móti samvitsku sinni sletta á Guddóminnum øllum svívyrdingum og ódádum mannanna. Svo litid verdur hof. fyrir ad skrøkva, til þess hann géti útbyggt rædunni af kristilegum grundvelli! Enn hvørnin fer hann nú

ad innbyggja henni annarstadar? — Pad géngur alt á sømu hjólunum! Hann „tekur stóra pottinn", eins og þjónn spámannsins Elísa (1 kgb. 4.), britjar i hann „kóranin og bibliuna", sýdur alt saman, og lætur svo *tyrki*, *gydinga* og mig, sem hann undireins gjørir ad *trúarbrædrum**), hafa þennann vellíng fyrir trúarbrøgd. Hér hefir ad sønnu ordid dálitil tímatals villa hjá høf., er hann lætur mig hafa feingid i spæni af þessum graut, ádur eg skrifadi rædurnar — sem ad vísu var fyrr enn árid 1842 — því þángad til árid 1845 hygg eg tyrkir og gydíngar hafi haft sínir hvørjar og tøluvert frábrugdnar trúarmeiníngar svo um frjálsrædid sem margt annad. En mentan og uppfræding Herra J. S. hjálpar honum svo ágjætlega til ad ráda vid sannindin, ad hann gétur gjort úr þeim og med þeim hvad sem hann vill, stúngid þeim í vasa sínn, drepid þau eins og flugu, gjørt krístna ad tyrkjum og gydíngum, og þadan af meira!

Eg ætla ekki ad vera margordur um „mannfrædina", ekki ad forsvara þad ordatiltæki: „ad vera eptir skopunarrétti kominn frá Gudi", einúngis bid eg lesarann gá ad því: ad høf. hefir ekki þóttst géta gjort þad afskræmi úr málsgreininni sem þad er i, sem honum likadi, nema hann sliti hana sundur, tæki úr henni, og hnýtti svo stúfana saman vid dálitinu ósannindaspotta frá sér. Þegar øll atridi málsgreinarinnar eru tekinn í einn lagi (høf. tekur øll burt nema hid fyrsta, svo sýnast skuli eg láti „alla" mannsins andlegu tign vera innifalda i því), þá sést hvørt audvelt yrdi ad heimfæra hana,

---

*) Pared sú skodan á frjálsrædinu, er Herra J. S. og hinir philosophisku og theológisku starsýnis — eda grillínga-menn (Speculanter) kalla kristilega: er svo frábrugdin þeirri, er menn híngad til hafa haft, og álitid sameiginlega gydíngum, kristnum og øllum þeim, er trúa á gudlega forsjón, en ekki blind forløg —: svo hefir *gydínga-* og *tyrkja-trúin*, í þessu efni, lendt *ødrumegin*, þó þær ad vísu séu nokkud ólikar, en hin *svonefnda kristna frjálsrædis-skodan hinumegin*, þar hún er þeim med øllu gagnstæd. Eg skal upplýsa þettá betur í vidbætirnum.

M. E.

eptir lýsíngu minni, uppá allar sképnur, eins og höf. vill vera láta. Það er einmidt fyrir þesshättar menn, sem annaðhvort hafa aldrei feingið vitneskju af enu margvíslega og þúngbæra sálarstríði, er mennirnir géta átt á síðustu æfistundum sínum, ellegar gánga hvervetna framhjá líðandi og deyandi bræðrum sínum eins og hjartalausir flisjúngar: að reka á annann eins sleggjudóm og höf. gjörir á 140 bls., þar sem hann flanar yfir það, er stendur í inng. 6tu ræðunnar viðvíkjandi ástandi hins deyandi. Eg fel það íhugun reyndra og hygginna manna, hvað djúpsær sú mannþekking er, sem telur það ósamkvæmt mannlegu eðli, að nokkur maður géti á dauðastundunni verið vantrúaður um ódauðleik sálar sinnar eða örvænt um sáluhjálp sína, og hvört það, er ímsar sögur og margir æruverðir menn hafa, af eigin sjón og heyrn, vottað um þvílíkt vonarleysi ekki allfárra dauðvona og deyenda, muni ósannindi ein, og hvört vantrú eða örvænting í dauðanum sé það óeðli, sem ekki sé ráð fyrir að gjöra, að átt géti sér stað í heiminum. Að minni kénnimannlegu reynslu um þetta efni má höf. hæðast svo sem hann vill; hann hæðir ekki frá mér þá sannfæring né tilfinningar, sem þessi reynsla hefir grafið djúpt inni hjarta mitt og eg vildi ekki skipta við alla þá mannþekking og speki, sem höf. hefir látið í ritgjörð sína. Ef þessi mannþekking múrar svo samvitsku hans, að hann aldrei þessa heims géti feingið sting af þeim ormi, er Kristur seigir ekki muni deya, þá er von hann þykist góður af henni, og finni meir enn minna til hvað í hana er varið.

Með hinni nýu útlegging á Jesú andlátsorðum (Þér faðir f.e.m.a.), hefir höf. ætlað að vinna tvennt í einu: koma nafni sínu í kórinn fyrir lærdóminn í hebreskunni og sneipa mig fyrir meðferðina á þeirri trúargrein: hvað orðið hefði af sálu Krists þegar hann andaðist. Þó það sé ekki spánýð athugasemd, sem höf. gjörir: „að menn veiti einhvörju móttöku með höndunum", gétur hann samt eignað sér þá nýúng, að hafa klædt Jesú andlátsorð úr enum hebreska búningi, er hann gaf þeim, hvörn allar enar íslenzku, ef ekki allra þjóða biblíuútleggingar hafa látið halda sér. Hvör veit nema þetta sýnis-

horn af lærdómi hans í hebreskunni útvegi hönum embætti hjá bókarannsóknar-veldinu; það væri ekki af vegi að þetta veldi, sem eins og hvört annað þarf vissa þjóna til framkvæmda sinna, veldi sér líka bartskéra til að sníða af Guði alla þessa jarðnesku limu, sem hebreskan hefir sett á hann, svo þeir verði ekki leingur neinum til ásteitingar. Herra J. S. hefir nú sýnt, að hönum er þessi starfi vel laginn; hann er strax búinn að kubba af hendurnar, hann er því líklegur til að ljúka fljótt og liðmannlega við það sem eptir er: skélla af eyrun, stínga út augun o.s.frv. Hvað mikið hof. hefir bætt um mína óvönduðu meðferð á þeirri trúargrein, sem hér er um að ræða (hvað orðið hafi af Sálu Krists), verða lesendur okkar úr að skéra. Hann segir það ekki rétt, að útleggja hér „hönd föðursins": himneskann sælustað. En — þó svo væri! hof. meðkénnir þó að Kristur hafi falið föðurnum anda sinn; það er þá hitt, sem hann vill ekki meðkénna, að hann hafi falið hönum hann „til meðtöku í himneskann sælustað!" — Af því það sýnist Jesús hafi með orðunum: „í dag skaltu vera með mér í Paradís", vænst þess, að koma samdægurs í þennann stað, (sem ráða má af 2 Cor. 12, 3. að gyðingar hafi álitið himneskann sælustað, þó orðið „Paradís", sem í fyrstu er komið frá Persum, hafi í hebreskunni aðra upprunamerking): þá kynni fleyrum enn mér þykja líklegt, að þessi von hefði ei verið frá hönum horfin þegar hann talaði andláts-orðin; og af því orðið „föðurhendur" mun almennt látið teikna góðann stað, mundu orðin „hendur föðursins", ef til vill, ekki standa öldúngis þýðingarlaus í Jesú andlátsbæn. En — þó þau hafi hér ekkert að þýða! munu samt ekki allir deyandi, sem fela sig Guði, innibinda í því þá ósk, að koma í himneskann sælustað? og hvaða mismun leiðir þá af hinum frábrugðnu úttleggingum, hof. og minni, í tilliti til meðferðar á trúargreininni? Almenníngi finnst hann, ef til vill, lítill eða einginn, en hof. finnur hann eitthvað töluverðann! Hann gétur víst gjört mestu trúarvillu úr minni útlegging: hann kann að seigja, andi þýði hér ekki sál; að Paradís merki í orðunum til ræníngjans: „sælustað í undir-

heimum"; hann gétur sagt, eg hafi kénnt móti því, er vera má ad stadid hafi í trúarjátníngunni í kverinu hans, „nidur sté hann til helvítis", og ályktad svo: Kristur vissi þad var Guds vilji, ad hann færi til helvítis, þad er því audvitad hann muni ekki hafa falid honum sálu sína „til medtöku í himneskann sælustad", þad hefdi verid syndsamlegt. Þetta vænti eg sé: óhætt er honum J. S.! Þad er satt, mér kom ekkert í hug þessi nidurstigníng, þegar eg gjördi þessa raungu útleggíng á andláts ordum Krists, en þó svo hefdi verid, held eg hún hefdi ordid eins og hún er. Eg hefi ad vísu séd ímsar meiníngar lærdra manna bædi um skilníng á þessum ordum: „nidur sté hann" o. s. frv., um þad: hvönær og til hvörs Kristur hafi farid þessa ferd; hvört hann fór med sálu og líkama, og hvörnin skiljast ættu greinarnar í Pétursbréfinu, sem hafdar hafa verid til ad sanna þessa trúargrein med (1 Pét. 3, 18—20.); en sumar þessar meiníngar géta dável komist heim vid mína útleggíng, um hinar hafdi eg ei ætlad mér ad deila vid neinn. Sé þad nú þetta, sem mig og hös. greinir hér á, ad eg þykist í Jesú andlátsordum finna átillu fyrir, ad hann hafi ætlad sér, þegar hann dó, til eilífrar sælu (þ. e. Paradísar, Luc. 23, 43. Födursins, Joh. 16, 16.), en hös. finni, eptir sinni útleggíngu á þeim, betra rúm fyrir þá meiníngu: ad Kristur hafi ætlad sér og farid til helvítis: þá erum vid sjálfsagt hér, eins og vídar, fullkomnir andfætíngar í trúnni, en vid verdum ad skilja svo í þetta sinn, og lesendurnir ad fylgja hvörjum okkar sem þeim er skapfeldara.

Hvört eda hvad mikid eg hafi misskilid og misbrúkad Jesú ord (Matth. 12, 31. 32) um syndina móti heilögum anda, á 79 bls. í kverinu, er einkum komid undir því, hvad ordid „heilagur andi" þýdir med réttu á enum tilvitnada stad. Géti menn kannast vid, ad gódar bendíngar meigi æfinlega ad vissu leiti eigna þeim krapti, er vída í N. T. kallast heilagur andi (πν. ἅγιον), og ad þad er ætíd einhvör grein af enni sömu spillíngu (vantrú og hjartans hardúd), er bjó hjá þeim er Jesús átti tal vid, sem veldur því enn, þegar menn harka sig upp á móti þeim; þá hygg og þeir géti og fundid hitt: ad

sá sem elur hjá sér þessa spillingu þángad til hún er kominn á svo háa tröppu, sem í rædunni er sýnt ad hún, eptir edli sínu, géti komist, og hljóti ad komast, ef ei er vidgjört: — muni ekki lángt frá ad drýgja þá synd, er Jesús talar um, og ad ord hans muni því ekki svo stórlega misbrúkud, þar sem þau standa í rædunni*).

Þó eg hafi nú hér ad framan hvörgi nærri géfid gaum eda svarad hvörri einstakri ádeilu hof., hvad nærri hefdi mátt kalla „ærs manns ædi", né nenni ad skipta mér af því sem eptir er, t. a. m., hvört afneitan Péturs postula lýsir hönum fremur sem „miklum ofurhuga" enn huglitlum, eins og eg hafdi meint —: þá hygg eg mig þó hafa sýnt nokkud ofaná, hvad álit höf. er flapurlegt yfirhöfud, og ad hann hefir sumstadar nokkud blygdunarlaust og ódreingilega nýdst þar á sannleikanum. Af sjálfsdádum hygg eg hvör gódur madur géti fundid, ad andinn í riti hans er ekki mikid kristilegri enn minn í rædunum, hvad tærilátur sem hann sýnist í trúnni, og ad speki hans hefir meiri keim af þeirri, er Jakob post. (3,

*) Eg gét ekki séd, ad höf. prédikananna hafi misskilid eda misbrúkad þann áminnsta stad um syndina móti heil. anda. Eg hefi opt og ítarlega yfirvegad þann stad og samanborid hann vid 1 Joh. 5, 16., en aldrei gétad sannfærst um, ad þar væri talad um neina einstaka eda sérlega synd, heldur ad eins þá „hjartans hardúd" og forherding, sem mótstendur þeim guds- eda heilags-anda verknnum, sem ské á ímsann hátt til ad benda mönnunum, vekja þá og leida til Guds. Þegar á alt er litid, verdur best ad skilja Matth. 12, 31—32 þannig: ad „lastmælin gégn mannsins syni" seú innifalin í því, ad þeir sem heyrdu Krist og saú gjördir hans, ekki vildu álíta, hann (manninn Jesús) fyrir Messias eda Guds son. Þetta sýnist Kristur ad hafa álitid fyrirgéfanlegt, medfram af því, ad Jesús Kristur sýndi sig á annann hátt, enn gydíngar höfdu hugad sér Messías. En med „lastmælunum gégn andanum" vyrdist hann ad lýsa þeirri forherdíngu, sem neitar guds anda krapti og verkunum, þar sem þær þó eru augljósar, svosem hann hefdi viljad seigja: „ad vísu er þad fyrirgéfanlegt, ad þid ekki álitid mig fyrir Messias; en ad þid tilleggid djöflinum gjördir mínar, sem andsjáanlega eru gjördar med guds anda krapti, þad fyrirgéfst ekki. Ad sjá og skynja verkunir Guds anda er þad, sem mest ríður á, en þad er minna áríðandi ad vita, fyrir hvörs hönd þær sýna sig, hvort heldur Messíasar, eda annarra Guds manna". 1 Joh. 5, 16—17 verdur best ad skilja beinlínis um andlegann dauda og forherding. M. E.

15.) kallar jardneska, holdlega o. s. frv., heldur enn hinni, sem ómeingud er og fridsøm og sanngjørn, full miskunar og gódra ávarta. Þad kynnu því enn ad hittast þeir, sem áliti þad nokkurt skodunarmál, hvort herra J. S. hefir, þegar á alt er litid, farid hér svo geisilega frægdarferd, eda á sjálfur eingann hlut í þeirri sneid: ad hafa „tranad sér fram" med litid erindi, og hvort sá andi og tón, sem hann ritar í, vottar — eptir malavøxtum — minna „sjálfstraust" og meiri kurteisi enn eg hafdi vottad í formálanum fyrir kverinu. Þetta er sjálfsagt alt komid undir smekk manna; en hann er einatt sinn hjá hvørjum, og breytist margvíslega. Í daglegu lífi held og raunar lesendur gódir! ad margir ydar mundu kalla þad furtalegt, ef einhvør ókéndur hlaupahrólfur trædi sér óbodinn inní samkvæmi, vædi inní efsta sæti, létist smakka snøggvast á því sem fram væri borid, stykki svo upp med hrækjum og ólátum, grenjadi framaní géstina og segdi, ad maturinn væri fullur med óþekkt og eytur, þeir skyldu ódar fleigja honum út! (og þó ødrum smakkadist hann nú bærilega, bordudu eptir sem ádur, og yrdi ekkert meint af!). Í vísinda efnunn gétur þad samt, ef til vill, álitist kurteysi og frægd á þessum døgum, ad haga sér svona; enn ekki hefdi Erasmusi frá Rotterdam þótt þad sidsemi á hans døgum, þad finnst mér sýna þessi ord hans: „svo hæfir lesara ad gánga til ad lesa bók, eins og kurteis bordgéstur er vanur ad gánga ad géstabodi. Géstgjafinn leitast vid ad fullnægja øllum; sé samt eitthvad framborid, sem hinum eda þessum fellur midur á góma, dylja þeir þad hæverslega, svo ekki styggi þeir géstgjafann. Því: hvør gétur þolad þann bordgést er kemur ad bordinu einúngis í því skapi, ad finna ad því sem fram er borid, neyta ekki sjálfur og ekki heldur lofa ødrum ad neyta?"*)

*) Sic oportet ad librum legendum accedere lectorem, ut solet ad convivium conviva civilis. Convivator annititur omnibus satisfacere; et tamen si puid apponitur, qvod hujus aut illius palato non respondeat, urbane dissimulant, neqvid contristent convivatorem. Qvis enim eum convivam ferat, qvi tantum hoc animo veniat ad mensam, ut carpens qvæ apponuntur, nec vescatur ipse nec alios vesci sinat (præfat. ad edit 2, N. T. Gr.).

J. O.

# Vidbætir.

---

Því meir sem eg hefi yfirvegad þann part álitsins, sem höndlar um trúarlærdóma, („kristsfrædina", frjálsrædid" o. s. fr.), því léttvægari sýnist mér hann. Hof. hefir sjálfur í undangengnum athugasemdum, ad mér vyrdist, hrakid gudlast og villur þær í kristsfrædinni, er J. S. hefir þóttst finna í rædunum, eg vil því ekki edur þarf ad fara fleirum ordum um þad. Þarámóti ætla eg, eptir bestu vitund, ad reyna til ad útlista fyrir lesendunum frjálsrædis-lærdóm þann, er sýnist ad liggja til grundvallar fyrir dómi herra J. S. um atridi þetta í föstuprédikununum.

Í skíringargrein á 31 bls. hefi eg adeins bendt til, hvornin á því standi, ad gydinga- og tyrkja-trúin lendi í sama dálki þegar talad sé um frjálsrædid, og séu bádar í þessu efni gagnstædar því, er Herra J. S. álítur ad vera einkunn kristindómsins í þessu trúar-atridi. Þetta þarf frekari útlistunar vid. Ad gydingar og tyrkir höfdu ólíkt álit á frjálsrædinu, þarf hér ekki ad skíra frá, þar þad er alkunnugt, ad hinir sídari trúa: ad öll forlög manna séu frá eilífd ákvördud, svo ad alt hid sama komi fram vid þá, í þad minsta hér, hvornig sem þeir breyti, þar þad sé med öllu óumflyanlegt. Þarámóti álitu gydingar, ad þad ad miklu leiti væri undir mönnunum komid, hvornin kjör þeirra yrdi, svo ad Guds nád og miskun veiti þeim gjædi þessa heims og lánga lífdaga, sem med gudsótta, rádvendni og réttvísi hafa gjört sig þess verduga, eda med ödrum ordum: ad Gud straffi þá vondu en umbuni þeim gódu. Í þessu eru Móses, Davíd og spámennirnir samhljóda. Eptir Múhameds (edá Tyrkja) lærdómi kémur þad sama yfir þá, hvornin sem þeir breyta, því þó hann á hinn bóginn kénni: ad gódir menn lendi á himnum, en vondir í helviti, þá er þetta, hvad frjálsrædid snertir, þýd-

ingarlaust, og það sýnist að vera mótsögn, að gjöra greinarnum á vondum og góðum, einmidt af því það verður að byggjast á lísi mannanna hérnamegin, hvort þeir eigi að álitast vondir eða góðir; en nú lætur hann líf þetta, með öllum þess tilfellum, vera ákvarðað fyrirfram, og þessvegna ræður maðurinn ekki sjálfur gjörðum sínum, sem opt er ómögulegt að aðskilja frá viðburðunum, hvorra afleiðingar þær beinlínis margopt eru; þessvegna verður það á endunum ekki undir manninum sjálfum komið, hvornin hann er, góður eða vondur, heldur undir hinni eilífu og óumbreitanlegu ákvörðun, og það rekur þannig að enum augustínsk-calvinska lærdómi: hvar frjálsræðið verður að eingu, hvar alt er ákvarðað fyrirfram, ekki einúngis farsæld og fortöpun, heldur og einnig dygð og lestir, jafnvel þótt Múhamed ekki hafi framsett hann beinlínis, því hans lærdómur var ekki samanhángandi þánkakérfi (System) eins og þeirra. Allir sjá nú, hvílíkur munur er á frjálsræðis-lærdómi gydingja og tyrkja, og hvað hyrdulaust og ástæðulaust það er — að eg ekki seigi annað verra — að sleingja þeim saman og seigja: að „í ræðunni (4ðu) bregði fyrir áþekkum lærdómum og g y d í n g u r e ð a t y r k i mundi kénna."

En hvað kémur nú til þess, að frjálsræðislærdómur gydínga á að vera svo fjarlægur og gagnstæður frjálsræðislærdómi kristinna manna? Útheimtir kristna trúin í sjálfri sér aðra skoðun á frjálsræðinu enn gydingatrúin? Ekki hefir það um aldir verið álit flestra manna að svo væri. En orsök þess, að frjálsræðið, eptir kristnu trúnni, nú á að vera orðið annað enn það var, eptir trú gydinga, er sú: að sá kristni, eða kanské heldur sá skírði, er ö n n a r v e r a enn sá, sem ekki er kristinn, og þá er það ofur eðlilegt, að frjálsræði hinna kristnu verði alt öðruvísi enn gydinga, sem ekki vóru kristnir. Hvornin skéður þetta? Það skéður við e n d u r f æ ð í n g u n a í s k í r n i n n i. Barnið fær a ð r a n á t t ú r u við skírnina enn það hafði áður*): þ e s s i n á t t ú r a er innifalin í, að það með-

*) Smbr. 30 bls. í riti Herra próf. Martensens, sem heitir: „den christelige Daab".

tekur sjálfann Krist og heilagann anda í skírninni*); sá skírdi hefir því ekki framar sína egin syndugu nátturu, heldur hefir hann fengid náttúru Krists, því hann er ordinn Kristophór (Kristusbærer)- eins og Herra Martensen seigir í áminnstum bæklingi 57 blſ.. Þannig breitist gjörsamlega grundvöllur og rót hins andlega og sidferdislega lífs hjá manninum, og þad jafnvel svo mjög, ad manneskjan, sem, ádur hún kristnadist átti annadhvort ad vera svipt öllum krapti til ens góda, eda ad minnsta kosti var breisk, veik og vanmáttug, verdur, vid þessa endurfæding, öll önnur, því Herra próf. Martensen seigir, ad skírnin eigi ad „útrýma og nidurdrepa hinni spilltu náttúru, hinum gamla adam", í stuttu máli: „mögulegleikanum til allra synda (Muligheden til alle syndige Handlinger)"**). Þegar nú mannleg náttúra er komin í þetta horf, þá verdur þad svokallada frjálsrædi alt annad enn þad, sem hingad til hefir verid kallad frjálsrædi; þad verdur þá innifalid í: ad þad góda er ordid náttúra mannsins, og ad þad verdur innvortis naudsyn (en indre Naturnodvendighed), ad gjöra hid góda. Nú verdur þad því ekki leingur kallad frjálsrædi hjá manninum, ad hann gétur valid milli góds og ills, því fyrst gétur hann þad ei leingur, þegar svo er komid, og þarnæst þykir þeim, er hafa búid til þennann skodunarmáta á hinni nýu náttúru hins kristna, ad gáfa sú, sem í fyrstu var gefin manninum til ad velja milli góds og ills, sé ekki þess verd, ad hún sé frjálsrædi kölluð. Í „Grundrids til Moralphilosophiens System" hefir Herra Martensen einmidt kénnt þennann lærdóm, er setur þessa náturu-naudsyn (Naturnødvendighed) til hins góda í stad hins gamla frjálsrædis, sem nú á ad vera gengid úr gyldi. Í 14da § hefir hann einkum talad um þetta gamla frjálsrædi, og leitast vid ad sýna hvad þad sé óverulegt. Í þessum § hefir hann framfært þá

---

*) Sjá sama rit 59 blſ. og rit mitt: „om Baptister og Barnedaab" 327 blſ. o. ſ. frv.

**) Sjá „den christelige Daab" af Dr. Martensen, 31 blſ.

ástæðu fyrir skoðan sinni á frjálsræðinu en móti hinni gömlu: að ef það væri þannig, að manneskjan gæti valið það góða eða illa, „yrði ekkert samanheingi í hinu siðferðislega lífi" manns sins, og „af því það, eptir þessari skoðun á frjálsræðinu, er manninum mögulegt á serhvorri tíð, að breyta öðruvísi enn hann breytir, yrði sá dygðugi líka að géta viljað (að hafa mögulegleika til) að vilja það illa og hinn vondi það góða"; en þetta sýnist honum ófært, að því er ráða má af hans frjálsræðis-lærdómi. Það er líka náttúrlegt, því Dr. Martensen kénnir (53 bls.): að Guð og maður séu eitt í veru og persónu, það er að seigja umskapaði, frjálsi maðurinn. Þaraf kémur: að hann „verður að gjöra Guðs vilja (maa realisere den), af því mannlegur vilji verulega er ákvarðaður við skaparans vilja", þ. e. Guð hefir við þessa nýu skopun, skapað sinn vilja í manninum, sem nú verður eitt með guði í veru og persónu, og því hlýtur að vilja það sama sem Guð vill*).

Það er vandi þessara hegelsku og martensensku Guðfræðinga, að vilja koma sér vel við ritninguna, hvað fjærri sem þeir annars eru henni í raun og veru. Þeir taka einstöku staði, sem sýnast að vera þeim meðmæltir, til að fegra með þeim lærdóma sína, en meginhluta ritningarinnar géta þeir ekki notað, því hann yrði á móti þeim. Þannig gjöra þeir í þessu efni. Til að bevísa sinn frjálsræðis-lærdóm citera þeir einkum Joh. 8, 32—36., hvar Kristur talar um þrældóm syndarinnar og um frjálsræði þess, sem fylgir Kristo og sannleikanum. Það er nú auðséð, að þetta frjálsræði eða andlega frelsi (þessi guðlegi kraftur í manninum, fyrir hvorn hann sigrast á syndinni og verður „frelsingi drottins" eins og Paulus seigir) —: er alt annað frjálsræði, enn frjálsræði það, er öll tilreiknan og sekt, umbun og straff byggist á, eptir því sem það er vel eða illa brúkað. Til staðfestingar þeim lærdómi: að sá endurfæddi géti ekki syndgað

*) Sjá 12 og 50 § í Dr. Martensens „Grundrids til Moralphilosophiens System".

— og einmidt í þessu á hans frjálsrædi ad vera innifalid! — cítera þeir einnig 1 Joh. 3, 9.: „Hvor af Gudi er gétinn, hann drýgir ekki synd, því sædi hans (Guds) er varanlegt í honum, og hann gétur ekki syndgad, því hann er af gudi gétinn". Þad er sjálfsagt, ad ord rítníngarinnar eru hér mjög skír og beint áfram. Hvad á þá til ad gjöra? Ad vísu ekki brúka þau eins og hinir áminnstu gudfrædingar. Þad sem stendur í þessum stad, er nú efa sannleiki; en einmidt af því gétnadurinn af gudi er hér tekinn í hreinasta og fullkomnasta skilníngi: um algjörda endurfæding, hjálpar ekki ad tilleggja endurfædíngunni þessa eiginlegleika, nema því ad eins hún sé fullkomin; en fullkomin er hún ekki nema hjá þeim, sem med öllu er syndlaus ordinn; en þad hefir líklega ekki verid nema einn ámedal mannanna barna. Hér af flýtur aptur: ad ekki tjáir ad skoda endurfædínguna, gétnadinn af gudi, þannig, ad hann géti skéd í einu, annadhvort vid skírn og annad þesshåttar, eda þá vid umvendan. Skírnin endurfædir eingann, og sá skírdi gétur verid skírdur alla æfi, án þess ad vera endurfæddur. Á hinn bóginn gétur sá óskírdi alteins vel endurfædst og sá skírdi. Umvendanin er ad eins byrjun endurfædíngarinnar, og því er ad vísu sá, er umvendist, leingra kominn á veg endurfædíngar og sáluhjálpar enn sá, sem einúngis er skírdur. En umfram alt ber þess ad gæta: ad endurfædíngin varir alla æfi, svo ad jafnvel hinn besti gétur ekki sagt: nú er eg algjörlega endurfæddur, sem væri þad sama sem ad seigja: nú er eg fullkominn, hreinn og heilagur og gét ekki framar syndgad. En hvor gétur þetta med sanni sagt? Þad er því audséd ad Jóhannes postuli talar um þá fullkomnan, sem menn, einkum kristnir, eiga ad keppast eptir ad ná, en sem þeir sjáldan eda aldrei algjörlega ná í þessu lífi, þó einstakir komist henni nærri, hafi, med adstod Guds og egin vidleitni, brotid afl syndarinnar, og helgad líf sitt gudi og náúnganum.

Af því nú endurfædíngin er svo torveld og lángvinn, og gétur naumlegu ordid hlutskipti manna hér í lífi svo algjörlega, ad þeir ekki framar géti syndgad, þá er þad audséd,

að ekki tjáir að binda frjálsræðið við hana, eða jafnvel gjöra hana og það að einu og steipa því saman, því þaraf flyti, að sá sem ekki er endurfæddur, t. d. heiðingjar, hefðu ekkert frjálsræði, og að það kjæmi fyrst smámsaman með endurfæðingunni hjá þeim, sem endurfæðast; þarsem frjálsræðið auðsjáanlega er alt annað, og einmidt nauðsýnlegt til þess að endurfæðingin géti byrjað.

Þegar mönnum er mjög um það annt að sýna, að þeir séu ofarlega í Guðs ríki, og skilji því betur enn almenningur þá hlúti, sem Guðs eru, þá kann það máské að vera dáendis þægilegt og handhægt, að íminda sér, að maðurinn endurfæðist og skapist að nýu annaðhvort við skírnina eða við eitthvort annað meðal, sem spekíngar þessir hafa í hendi sér að búa til, og að hann, við þessa endurskopun, fái aðra náttúru enn hann áður hafði, frjálsræði, sem sé innifalið í innvortis nauðsyn til hins góða, og svo fram eptir götunum —: en eg hygg samt, að þó slíkir guðfræðíngar þykist spekíngum vitrari, muni þó allir skynsamir menn, er ekki sem þeir, gánga fram eins og blindar eða skinlausar sképnur í heimi þessum, álíta þá skiptingum heimskari; þarsem þeir, víðvíkjandi eðli mannsins, vilja heldur fylgja botnlausum heilaspuna, er við hvort fótmál rekur sig á veitleisur og mótsagnir, enn Guðs orði, óbrjálaðri skynsemi og meðvitund manna, og reinslu þeirra í 6000 ár; svo þeir eptir eigin hugþótta géti búið til nýann mann, með öllu frábrugðinn þeim, er Guð skóp í fyrstu.

Þetta er nú sá frjálsræðis-lærdómur, sem Dr. Martensen kénnir í sinum kristilega móral. Þennann visdóm hafa þeir meðtekið, sem aðhyllast kénníng hans og ekki géta séð, hvilíka ófreskju kénnari þessi hefir gjört úr guðfræðinni. Þessi lærdómur hefir ogsvo auðsjáanlega vakað fyrir J. S., þegar hann var af semja álitið á föstuprédikununum; að öðrum kosti er það ómögulegt, að álitið hefði orðið eins og það er, því eínginn heilvita maður, er fylgir hinni eldri skoðan á frjálsræðinu, hvorri flestir ennþá fylgja, gétur dæmt þannig um það, er fyrirkémur í 4ðu ræðunni viðvíkjandi frjálsræðinu.

Héraf er þá og audsætt, hvad til þess kémur, ad frjálsrædis-lærdómur gydínga á ad vera svo frábrugdinn frjálsrædis-lærdómi kristinna manna.

Eg vona nú, ad visbendíng sú, sem eg i fám ordum hefi leitast vid ad géfa löndum mínum, géti ordid þeim til vidvörunar, svo þeir glæpist ekki á þeirri háskalegu villu, er þegar hefir leitast vid ad ná inngaungu hjá þeim, og máské reynir líka til þess framveigis þegar tækifæri géfst. Villa þessi er þeim mun hættulegri, sem hún elur sérgædíngsskap og sjálfsþótta mannsins, og kémur þarhjá í fögrum búníngi, sem von er, þarsem hún er skrýdd af „mentudum" mönnum, fyrst þeim sem stundad hafa allrar veraldar heimsspeki og gudfrædi, og eru því settir til ad kénna heilum ríkjum og löndum, og þarnæst þeim, er setid hafa til fóta þeim og numid speki þeirra. Eg hefi annars bestu von um, ad landar mínir, sem ekki hafa numid heimsspekkina, muni sjá og skynja villu þessa, því eg treysti því, ad þeir hafi óbrjálada skynsemi. Sama er ad seigja um ena eldri gudfrædínga, sem lært hafa vid háskólann, því hvorutveggi þessir munu brúka skynsami sína, þegar þeir eiga ad dæma um þad, er mannleg skynsemi, byggd á reynslu og gudlegri upplýsíng, vyrdist ad géta dæmt um. En hvort þeim nýusta gudfrædíngum muni skiljast þetta, er bágt ad seigja, því eg hefi tekid eptir, ad sumir af þeim, er kénna hid nýa frjálsrædi, eiga bágt med ad yfirgéfa sinn þánkagáng, eda breita meiníng sinni; því einkunn þess nýa frjálsrædis virdist ad vera sú, ad þeir sökkva sér nidur í lærdóma, meiníngar eda heilaspuna annarra, eins eda fleiri, álíta þetta vera líkil og sjód viskunnar, og géfa sinn eiginn skilníng fánginn. Þannig gjörast þessir nýu frjálsrædismenn „manna þrælar" á hinn aumkunarverdasta hátt.

Ad lyktum vil eg ad eins géta þess, ad eg fyrir skömmu hefi útlistad nákvæmar, og, eptir því sem eg held, hrakid villu þessa, ásamt fleiri villulærdómum Dr. Martensens, í ritlíngi þeim, er útkom mánudi fyrir jól, hvorn eg hefi skírt svo nákvæmlega eptir innihaldinn sem mér var mögulegt, og því kallad hann: „Dr. Martensens trykte moralske Para-

grapher, eller det saakaldte „„Grundrids til Moralphilosophiens System af Dr. H. Martensen"" i dets forvirrede, idealistisk-metaphysiske og phantastisk-speculative, Religion og Christendom undergravende, fatalistiske, pantheistiske og selvforguderske Væsen, belyst og bedømt af M. Eiriksson cand. theol. Kbhavn. 1846." VIII + 162 blſ. Þeir landar, sem lesa þennann ritling, géta því betur speiglað sig i þeirri skoðan á Guði, heiminum og eðli mannsins, sem hér aðeins er drepið á.

M. E.

Nokkrar

# Athugasemdir

um

Dóm þann, er herra „J. S." hefir lagt á „sjø føstuprédikanir, samdar af Olafi Indridasyni, presti til Kolfreyustadar",

ritadar af

**O. Indridasyni,**

med

inngángsordum, fáeinum skíringargreinum og stuttum vidbætir.

af

**Magnúsi Eiríkssyni.**



---

**Kaupmannahöfn.**

Prentadar í S. L. Møllers prentsmidju.

1847.